HIÐ ÍSLENZKA

# BÓKMENTAFÈLAG.

STOFNAN FÈLAGSINS OG ATHAFNIR

UM

FYRSTU FIMMTÍU ÁRIN

1816—1866.

---

KAUPMANNAHÖFN.

PRENTAÐ HJÁ BIANCO LUNO.

# HIÐ ÍSLENZKA

# BÓKMENTAFÈLAG.

## STOFNAN FÈLAGSINS OG ATHAFNIR

UM

FYRSTU FIMMTÍU ÁRIN

1816—1866.

---

KAUPMANNAHÖFN.
PRENTAÐ HJÁ BIANCO LUNO.
1867.

Á fundi í deild hins íslenzka Bókmentafèlags á Íslandi, sem haldinn var í Reykjavík að áliðnu sumri 1865, minntust menn þess, að fèlag vort var stofnað 1816, svo að fimmtíu ára afmæli fèlagsins bæri uppá árið 1866. Það var þá almennt álit fundarmanna, að tilhlýðilegt væri, að fèlagið hèldi minníng þess á einhverjum tilteknum degi á þessu ári, og kom mönnum saman um, að það væri vel til fallið, að báðar deildir hèldi fund á einum og sama degi, og að forsetar deildanna hèldi þá ræður, hvor í sinni deild, en þær ræður skyldi einkum vera þess efnis, að skýra frá æfi og athöfnum fèlagsins á þessum umliðnu fyrstu fimmtíu árum af æfi þess; en síðan skyldi prenta ræður þessa sèrstaklega á fèlagsins kostnað.

Deild fèlagsins í Kaupmannahöfn hèlt fund 17. Februar 1866, og var þá fallizt á í einu hljóði, að halda minníngu þess, að fèlagið er stofnað fyrir fimmtíu árum síðan; það var og einnig samhljóða atkvæði fundarmanna, að það væri vel fallið, að minníng þessi væri haldin á þann hátt, sem fyr var sagt. En þegar ákveða skyldi þann dag, sem skyldi vera fundardagur, þá þótti það að vísu bezt til fallið, að velja þartil þann dag, sem gæti kallazt fèlagsins afmælisdagur, eða þann dag, sem hin ýngri deild fèlagsins, deildin í Kaupmannahöfn, var stofnuð á, og sá dagur hefir ávallt verið talinn 30. Marts. En af því að svo stóð á í þetta sinn, að 30. Marts bar uppá lángafrjádag, þá þótti ekki eiga vel við að taka þann dag til fundarhalds, og ekki heldur laugardaginn fyrir páska, en þá lèk á ymsum álitum, hvern dag annan að kjósa skyldi. Var þess þá getið, að 13. April gæti talizt sem merkidagur fèlagsins að því leyti, að á þeim degi 1816 var fullgjör kosníng embættismanna í deildinni í Kaupmannahöfn, og hún þannig fullkomlega á stofn sett, en menn gátu þess einnig, að sá dagur í Augustmánuði (fyrsti eða fimtándi), sem talinn er frá þeim degi að lög fèlagsins voru samþykkt í deildinni á Íslandi 1816, mætti einnig teljast til minníngardags. En það var samþykkt, að skjóta úrskurði um þetta mál til deildarinnar á Íslandi, hvern dag hún helzt vildi velja til fundarhalds, hvort heldur 13. April eður annan, og skyldi fundarhaldið bíða þess, að svar hennar kæmi, og svo atkvæði hennar um, hvort hún væri samdóma um alla þessa tilhögun, eða hún vildi nokkru til breyta, og þá hverju. Svarið frá deildinni á Íslandi, dagsett 19. Marts, kom 8. April til Kaupmannahafnar, og kvaðst deildin mundu velja föstudaginn 13. April til minníngardags og halda þann dag fundinn.

Samkvæmt þessum ályktunum voru fundir haldnir í báðum deildum hinn sama dag er til var tekinn. Deildin í Kaupmannahöfn hafði samkomu sína á Borchs collegio,

sem er fèlagsins venjulegi fundarstaður, og voru 25 fèlagsmenn á fundi, en um kvöldið höfðu þeir samsæti og var þar mælt fyrir skálum og kvæði súngið fyrir minni hins íslenzka Bókmentafèlags.

Deildin í Kaupmannahöfn samþykkti, að láta fylgja minníngarriti þessu myndir nokkurra þeirra manna, sem áttu mestan þátt í stofnun fèlagsins, og stjórnuðu því framan af, meðan það var að komast á fastan fót; en það voru þessir fjórir einkanlega:

1. RASMUS KRISTJÁN RASK, prófessor og bókavörður við háskólann í Kaupmannahöfn, fæddur á Fjóni 22. November 1787, andaður í Kaupmannahöfn 14. November 1832. Hann var fyrsti höfundur fèlagsins og forseti deildarinnar í Kaupmannahöfn $^{30}/_{3}$ 1816 til $^{18}/_{10}$ 1816 og $^{30}/_{3}$ 1827 til $^{15}/_{3}$ 1831; varaforseti $^{30}/_{3}$ 1824 til $^{30}/_{3}$ 1827; heiðursfèlagi $^{28}/_{4}$ 1818. — Myndin er tekin eptir þeirri, sem er framanvið útgáfu hans af Sæmundareddu, og er frá þeim tíma sem hann var í Svíþjóð (1816—1818). Nafnrit hans er tekið eptir brèfi frá sama tíma.

2. ÁRNI HELGASON, biskup, fyrrum stiptprófastur og prestur að Görðum á Álptanesi, Riddari af Dannebrog og Dannebrogsmaður, fæddur á Stað í Aðalvík 27. Oktober 1777. Hann var ásamt Rask fyrsti forgaungumaður fyrir að stofna fèlagið á Íslandi og var forseti deildarinnar þar frá 1816 til 1848; heiðursfèlagi 1830; heiðursforseti síðan 1848. Mynd hans er tekin eptir uppdrætti, sem sagt er að prófessor Rudolph Keyser frá Noregi hafi gjört, þegar hann var á Íslandi (1825—1827). Nafnritið er eptir brèfi frá 1818.

3. FINNUR MAGNÚSSON, etazráð, prófessor og leyndarskjalavörður konúngs, Riddari af Dannebrog og Dannebrogsmaður, riddari af helgrar Önnu orðu öðrum flokki, fæddur í Skálholti 27. August 1781, andaður í Kaupmannahöfn 24. December 1847. Hann var einn af hinum fyrstu stofnendum fèlagsins í Kaupmannahöfn, og fyrsti skrifari deildarinnar $^{30}/_{3}$ 1816 til $^{30}/_{3}$ 1819, forseti $^{30}/_{3}$ 1819 til $^{27}/_{4}$ 1820, $^{30}/_{3}$ 1821 til $^{30}/_{3}$ 1827 og $^{27}/_{3}$ 1839 til dauðadags; varaforseti $^{30}/_{3}$ 1827 til $^{15}/_{3}$ 1831; heiðursfèlagi $^{3}/_{4}$ 1827. Mynd hans er eptir þeirri, sem er með hinni stóru ferðabók Gaimards á Íslandi, eins og sú, sem er framanvið fjórða ár Nýrra Fèlagsrita. Nafnritið er eptir brèfi frá 1820.

4. BJARNI ÞORSTEINSSON (THORSTEINSON), fyrrum amtmaður í Vesturamtinu á Íslandi, konferenzráð, Riddari af Dannebrog og Dannebrogsmaður, fæddur á Sauðhúsnesi í Vesturskaptafells sýslu 31. Marts 1781. Hann var einn með hinum fyrstu stofnendum fèlagsins í Kaupmannahöfn og hinn fyrsti varaforseti deildarinnar $^{30}/_{3}$ 1816 til $^{18}/_{10}$ 1816; síðan fyrsti forseti eptir Rask, $^{18}/_{10}$ 1816 til $^{30}/_{3}$ 1819 og aptur í annað sinn $^{27}/_{4}$ 1820 til $^{30}/_{3}$ 1821; heiðursfèlagi $^{30}/_{3}$ 1827. Mynd hans er tekin eptir ljósmynd á gleri *(Daguerreotyp)* frá 1847, en nafnritið eptir brèfi frá 1818.

---

# Yfirlit.



## FYLGISKJÖL.

# HIÐ ÍSLENZKA

# BÓKMENTAFÈLAG

FYRSTU FIMMTÍU ÁRIN

1816—1866.

# I.

## **RÆÐA FORSETA** Á FUNDI Í DEILD HINS ÍSLENZKA **BÓKMENTAFÈLAGS Í REYKJAVÍK**, 13. APRIL 1866.

Háttvirtu fèlagsmenn!

Nú eru þegar liðin 50 ár, frá því hið íslenzka bókmentafèlag var stofnað árið 1816, og hefir vorri deild og deildinni í Kaupmannahöfn komið ásamt um, að báðar fèlagsdeildirnar hèldi fund í dag í minníngu þessa atburðar og þótt tilhlýðilegt, að forsetar deildanna minntist hans með nokkrum orðum, sem síðan kynni að verða auglýst almenníngi. Eg skal nú því síður fara mörgum orðum um stofnun fèlags vors, sem eg veit, að forseti deildarinnar í Kaupmannahöfn muni gjöra það ítarlega, en get þó ei alveg leidt hjá mèr, að minnast í virðíngarskyni tveggja manna, sem voru hinir fyrstu frumkvöðlar og stofnendur þess; annar þeirra var hinn ógleymanlegi vinur og velgjörðamaður Íslands, hinn nafnfrægi málfræðíngur, prófessor **Rask**, en annar er hinn háæruverðugi öldúngur, herra biskup **Árni Helgason** í Görðum, sem síðan var forseti deildar vorrar meir en 30 ár og sem nú er heiðursforseti fèlagsins. Báðum þessum herrum er hin fyrsta stofnun fèlagsins að þakka, og fyrir fylgi þeirra tóku margir Íslendíngar, bæði hèr og í Kaupmannahöfn, ötulan þátt í að fèlagið kæmist á fót. Eins og kunnugt er, þá er það tilgángur fèlagsins að reyna til að viðhalda íslenzkri túngu og vernda hana, og að efla íslenzkar bókmentir, og þannig auka almenna mentun í landinu og glæða þjóðerni vort. Fèlagið á að láta prenta merkileg rit Íslendínga, einkum eptir þeirra dag, svo þau farist ekki. Einnig getur fèlagið gefið út á prenti alþýðleg rit og þau, er snerta skólalærdóm. Deildin í Kaupmannahöfn á

eptir lögum fèlagsins árlega að gefa út frèttarit, sem fyrst voru kölluð íslenzk Sagnablöð og ná frá 1817—1826, en nú er það kallað Skírnir; þaðan er og birt á prenti skýrsla um fjárhag fèlagsins. Það var ekki furða, þótt framkvæmdir fèlagsins, fyrst eptir að það var stofnað, gæti ekki orðið svo miklar meðan það var að komast á legg, því vísirinn var mjór og árlegt tillag hvers fèlagsmanns hèr á landi að eins 1 rdl. en 3 rdl. í Danmörku, og eru eigi mörg ár síðan menn hèr á landi einnig fóru að greiða 3 dala tillag. Það, sem þó bráðum kom fótum undir fèlagið, var það, að bæði veitti **konúngurinn Friðrekur hinn sjötti** því árlega 100 ríkisdala styrk, og greifi Adam Wilhelm **Moltke** af Bregentved gaf því jafnskjótt aðra 100 ríkisdali árlega, og hèlt þessi velgjörðamaður fèlagsins örlæti sínu við það áfram til dauðadags. **Kristján konúngur hinn áttundi** jók að helmíngi hina konúnglegu náðargjöf til fèlagsins, og veitti því 200 ríkisdala styrk á ári, meðan hann sat að ríki. **Friðrekur konúngur hinn sjöundi** gjörðist verndari fèlagsins meðan hann var krónprinz, og veitti því einnig 200 ríkisdala styrk árlega eptir að hann kom til ríkis. Vor allramildasti konúngur **Kristján hinn níundi** hefir sýnt fèlaginu þá mildi, að gjörast verndari þess, og heldur hinu sama konúnglega veglyndi áfram sem fyrirrennarar hans. Það á hèr ekki við, að telja upp allar þær bækur, sem fèlag vort hefir gefið út frá því það var stofnað; eg skal að eins leyfa mèr að minnast á nokkuð af hinu helzta.

Að því er snertir **sögu Íslands**, hefir fèlagið gefið út Sturlúngu og Árbækur Íslands eptir Jón Espólín í 13 bindinum, sem ná frá 1261—1832. Einnig gefur það út Skýrslur um landshagi á Íslandi, Tíðindi um stjórnarmálefni Íslands, Biskupa sögur, Íslenzkt fornbrèfasafn (Diplomatarium Islandicum) og Safn til sögu Íslands og íslenzkra bókmenta að fornu og nýju. Líka hefir fèlagið gefið út **kvæði** hinna beztu íslenzku skálda, bæði frumkveðin og útlögð, t. d. kvæði Stepháns Ólafssonar, Bjarna Thorarensens og Jónasar Hallgrímssonar; sömuleiðis Miltons Paradísarmissi og Klopstokks Messias, sem síra Jón Þorláksson hefir snúið; Hómers Odysseifs kvæði eptir Sveinbjörn Egilsson og son hans Benedikt Gröndal, og Ilions kvæði eptir hinn síðarnefnda. Fèlagið hefir einnig gefið út mörg önnur rit, er snerta **íslenzka túngu og íslenzkar bókmentir**, svosem t. a. m. Skýríngar yfir Fornyrði Jónsbókar

eptir Pál Vídalín lögmann, Frumparta íslenzkrar túngu í fornöld eptir Konráð Gíslason prófessor, Íslenzkar rèttritunar reglur og málmyndalýsíngu eptir Halldór Kr. Friðriksson, Orðskviðasafn eptir Guðmund Jónsson prófast á Staðarstað, Grasafræði eptir Odd Hjaltalín lækni, Lækníngakver eptir Jón Hjaltalín landlækni, Brèf Horatii, er þeir Gísli Magnússon og Jón Þorkelsson skólakennarar hafa íslenzkað. Ennfremur hefir það gefið út Landaskipunarfræði og Lýsíng landsins helga á Krists dögum, og er nú að láta prenta mannkynssöguna eptir Pál Melsteð. Sömuleiðis hefir fèlagið keypt og útbýtt til fèlaga sinna Íslenzkar þjóðsögur eptir Jón Árnason, og hafa þær orðið svo víðfrægar, að nokkru af þeim hefir þegar verið snúið á Dönsku, Norsku og Ensku. **Í náttúruvísindum** hefir fèlagið gefið út Eðlisfræði með 250 myndum, er síra Magnús Grímsson íslenzkaði, og bæklíng um túna og engjarækt. Nú er það að gefa út Tölvísi eptir yfirkennara Björn Gunnlaugsson. Eg ætla seinast að telja það verk, sem eg raunar hefði átt að minnast einna fyrst á, og það er **Uppdráttur Íslands** eptir Björn Gunnlaugsson. Áður höfðu aðeins strendur Íslands verið mældar frá 1776—1820, en ekki var neinn áreiðanlegur uppdráttur til af landinu sjálfu. Árið 1831 tókst Björn Gunnlaugsson það verk á hendur, með tilstyrk fèlags vors og stjórnarinnar, að ferðast um landið, kanna það allt og mæla, og lauk hann þessu stórkostlega vandaverki á tólf ára tíma. Útlendir ferðamenn, sem hafa farið um landið, ljúka allir upp sama munni um það, hvað þessi uppdráttur sè nákvæmur, rèttur og áreiðanlegur, og eins og verk þetta verður höfundinum til æfinlegs heiðurs og sóma, eins getur líka fèlag vort talið sèr það til gildis, að það hefir verið hvatamaður að, og átt nokkurn þátt í, að því gat orðið framgengt. Því miður var þessi þáttur þó ekki eins mikill eins og hann hefði átt að vera, því að fjárhagur fèlagsins var í þann tíma svo bágborinn, að fèlagið gat lítið látið af hendi rakna til að launa slík fyrirtæki, og það er fyrst á seinni árum, að það getur launað ritstörf svo nokkru nemi, því að nú er fèlaginu vaxinn svo fiskur um hrygg, að það á í konúnglegum og öðrum skuldabrèfum allt að 10,000 rd., og árstekjurnar eru rúmar 3000 rd.

Einsog kunnugt er, skiptist fèlagið í tvær deildir, og hefir deildin á Íslandi verið talin aðaldeild fèlagsins; en í raun og veru hefir deildin í Kaup-

mannahöfn getað tekizt meira í fáng, og verið öflugri til allra framkvæmda; ber margt til þessa, og þó einkum það, að hún stendur betur að vígi en vèr með allar sendíngar til landsins, þarsem hún getur sent bækur til allra hafna með skipum kaupmanna, en vèr erum mest bundnir við Suðurland; eins það, að hjá henni er höfuðstóll eða meginsjóður fèlagsins, og að hún veitir viðtöku hinni árlegu gjöf konúngs og tillögum fèlagsmanna að norðan, austan og vestan. Líka hefir hún í vísindalegum ritstörfum fleiri hjálparmeðöl við að styðjast en vor deild, og á hægra með alla prentun en vor deild átti að minnsta kosti framan af; enda lèt vor deild sèr lengi framan af lynda, að senda Kaupmannahafnar deildinni þau árlegu tillög, sem hún gat heimt hèr, og það er fyrst á seinni árum, að vor deild fór að launa ritstörf og gefa út bækur, og mundi gjöra það meir og betur, ef meira fè væri fyrir hendi. Að vísu eiga báðar deildirnar að vera hvor annari hjálplegar með fjártillög, þegar þess þarf við, og þetta hafa þær einnig gjört, en deildin í Kaupmannahöfn hefir ætíð svo mikið fyrir stafni, að hún á bágt með að láta meira fè úti, en hún gjörir, og því einnig með að bæta úr þörfum vorum, enda sannast það hèr, sem optar, að „beati sunt possidentes". — Af því, sem þegar hefir verið sagt um framkvæmdir fèlags vors, mun það sjást, að það hefir ekki setið auðum höndum nè verið aðgjörðalaust, heldur leitazt við að vinna fósturjörðu vorri allt það gagn, sem kríngumstæður og kraptar þess hafa frekast leyft. Það hefir ekki einúngis gefið út margar bækur í mörgum vísindagreinum, heldur má óhætt fullyrða, að sumt af því eru ágætar bækur, sem engin þjóð þyrfti að skammast sín fyrir, og hefir þó fèlagið haft talsvert vandaverk að leysa, þar sem vöxtur þess og viðgángur er svo mjög kominn undir tölu fèlagsmanna, hefir því ekki mátt fara eingaungu eptir því, hverjar bækur einstakir lærðir menn hefði helzt viljað gefa út, heldur og orðið að hafa tillit til þess, að þær væri að alþýðu skapi og nokkurnveginn við hennar hæfi, og eg verð að ætla, að fèlaginu hafi tekizt þetta vonum fremur yfir höfuð að tala, og að það, jafnframt því, að halda uppi minníngu margra lærdómsmanna og viðhalda ritum þeirra, hafi aukið námfýsi og fróðleiksást í landinu og haft mentandi áhrif á almenníng. Meðal annars verð eg að telja það til merkis um þetta, að síðan árið 1855 hefir tala fèlagsmanna aukizt meir en um helmíng, þar sem orðufèlagar voru þá aðeins 319, en nú eru þeir nálægt 730, og

hafa þó, eins og allir vita, þessi síðustu tíu árin verið mjög hörð, og landsmenn ekki verið aflags færir. Að sönnu veit eg, að dugnaður og framkvæmd af hendi fèlagsins í útgáfum bóka, og einkum deildarinnar í Kaupmannahöfn, á nokkurn þátt í þessari fjölgun fèlagsmanna, þareð menn hljóta að sjá og taka eptir, að þeir fá í bókum ár hvert meir en andvirði tillaga sinna; en allt fyrir það hefði þessu ekki orðið komið til leiðar, hefði ekki fèlagið verið búið að áyinna sèr hylli landsmanna, hefði það ekki verið búið að glæða námfýsi og fróðleiksást í landinu. En þó vèr þannig getum sýnt og sannað, að fèlag vort hafi komið talsverðu góðu til leiðar, getum vèr þó ei sýnt fram á allt það gagn, sem það hefir unnið landinu, því að starfsemi þess er andlegs eðlis, og ávexti hins andlega geta menn ekki ætíð svoleiðis handleikið, að þeir geti sagt: „þeir eru hèrna, eða þeir eru þarna"; hið andlega, sem sáð er í hjörtun, liggur, ef til vill, falið um stund, en það kemur upp á sínum tíma, og ber þá blómlega ávöxtu einatt þar, sem menn áttu sízt von á. Þannig treystum vèr því og, að auk hinna sýnilegu ávaxta, sem starfsemi fèlags vors þegar hefir borið, muni það og hafa sáð þeim frækornum í hjörtum margra, sem enn eru falin, en koma upp á sínum tíma. Í þessu trausti viljum vèr, háttvirtu fèlagsmenn! vinna ótrauðir, leitast við að auka mentun og fróðleik sjálfra vor og landa vorra, og reyna til að ávinna fèlagi voru sem flesta fèlagsbræður, svo að því enn geti aukizt kraptar og það unnið sem mest gagn fyrir land og lýð. Felum svo guði árángur viðburða vorra og biðjum hann að blessa þá, því að hann er sá, sem ávöxtinn gefur.

# II.

## RÆÐA FORSETA Á FUNDI Í DEILD HINS ISLENZKA BÓKMENTAFÈLAGS Í KAUPMANNAHÖFN, 13. APRIL 1866.

Mínir hæstvirtu Herrar,

Menn hafa opt hreyft þeirri spurníngu, hvað til þess komi, að vèr Íslendíngar höfum einir getað haldið hinni fornu túngu vorri, sem er í öllu verulegu hin forna túnga Norðurlanda, óbreyttri að kalla má um svo margar aldir, þar sem frændþjóðir vorar hafa svo stórkostlega breytt sínum túngum. Menn hafa sagt, að orsök til þessa væri fjarlægð lands vors og viðskiptaleysi við önnur lönd. Þetta kann og að vísu að vera mikilsvert atriði í málinu, en það getur ekki leyst úr því að fullu. Aðalatriðið er fólgið í bókmentum vorum og bókmáli, sem þjóð vor hefir haldið við gegnum alla æfi sína, í ritum og ræðum. Hefðum vèr ekki haft mál vort á bókum, sem lesnar hafa verið almennt um allt land af allri alþýðu manna, og það á þesskonar bókum og í þesskonar ritum, bæði í bundinni og óbundinni ræðu, sem mega heita fyrirtak, eða svo merkileg fyrirmynd, að menn geta jafnað þeim við beztu rit annara þjóða í sömu grein; hefðum vèr ekki, segi eg, átt mál vort á þesskonar bókum, og átt þær bækur svo að segja í hvers manns hendi, þá hefði hvorki fjarlægð lands vors nè viðskiptaleysi við önnur lönd megnað að varna málbreytíngum hjá oss, heldur en hjá frændþjóðum vorum, þó miklu mannfleiri sè. Viðskipti vor við önnur lönd hafa verið svo löguð, sem skæðast gat orðið fyrir mál vort og þjóðerni, því vèr höfum verið bundnir í samskiptum vorum um heilar aldir við náskyldar þjóðir, og einkum við eina einustu þjóð, sem ekki hafði neina ljósa hugmynd um norræna mentun, eða var búin að gleyma henni og hafði að öllu leyti lagt hug sinn að suðrænum skólalærdómi og

suðrænum bókmentum. Og þetta samband var því skæðara, sem hvorttveggja þjóðernið var runnið af sömu rót í fyrstu. Frændur vorir, Noregsmenn, sem þó voru miklu mannfleiri en vèr, og höfðu þó nokkur rit á sínu máli, og hefðu getað lengi frameptir haft þátt í bókmentum með oss, fylgðu sama dæmi; og mèr finnst auðsætt, að ef bókment vor hefði ekki yfirgnæft hjá oss miklu framar en hjá hinum, þá hefðum vèr lent á sama stað, einsog opt hefir mátt sjá dæmi til meðal hinna skólalærðu manna hjá oss. — Annað atriði því til styrkíngar, að það sè hin þjóðlega bókment og bókritin á voru máli, sem hafa haldið túngunni við, það er, að vèr höfum eitt og hið sama mál í öllum hèruðum um allt land; vèr þekkjum að vísu sèrstaklegar mállýzkur úr ymsum hèruðum, bæði í nöfnum á ymsum hlutum og í framburði, en vèr getum ekki talað um þessar smábreytíngar einsog sèrstök mál hèraða, eða fjarða, eða dala, svo sem vèr verðum varir við í öðrum löndum og hjá frændþjóðum vorum sèrílagi. Vèr getum heldur ekki talað um bókmál vort sem túngu hinna mentuðu manna, sem sè ólíkt alþýðumálinu, heldur er hið hreinasta bókmál vort jafnframt hið hreinasta alþýðumál, sem vèr heyrum lifa á vörum karla og kvenna, þar sem vèr köllum bezt talað mál vort í sveitum. Þessi samhljóðan túngunnar er einmitt hinn ljósasti vottur um, að þjóðmál vort hjá öllum stèttum hefir sína föstu rót og reglu í bókmálinu, svo að það eru bókmentir vorar, sem hafa haldið túngu vorri við og geymt hana um margar aldir.

Vèr heyrum opt talað og ritað á þá leið, einsog að mál vort og bókmentir hafi dáið smásaman, eða jafnvel allt í einu orðið bráðdautt, eptir að land vort misti sjálfsforræði sitt og hafði gefið sig undir útlendan höfðíngja; vèr heyrum opt talað svo, sem fornrit vor og fornkvæði sè að vísu ágæt allt fram að fjórtándu aldar lokum, en þaðan af sè bókmentir vorar lítt merkilegar eða varla þeim gaumur gefandi. Vèr höfum sjálfir ætíð verið hneigðir á, að meta það mest sem elzt er, og því hafa margir á meðal vor tekið í hinn sama streng, og látið einsog ekkert væri ritað síðan á fjórtándu öld, sem aðkvæða rit mætti heita. Eg held og ekki að neinn geti neitað því, að bókmál vort hafi náð þeirri fegurð og afli á tólftu og þrettándu öld, að það hafi ekki síðan tekið því fram; en þetta er einúngis að skilja um einstakar greinir og einstök rit, en ekki um allar greinir bókmenta vorra. Á hinum síðari öldum hefir sífelt verið vakandi hinn sami fróðleiks andi, stundum með meira stundum

með minna afli, og íslenzkir vísindamenn hafa jafnan staðið á þjóðlegri rót, hvort sem þeir hafa ritað á vora túngu eður ekki. Vèr getum sýnt frá sèrhverri öld fleiri eða færri frumrit á vora túngu rituð, sem sum eru ágæt í sinni röð, eða að minnsta kosti sóma sèr vel, hvort sem þau eru borin saman við íslenzk rit forn eða ný, eða þau eru borin saman við samtíða rit samkynja tegundar annarstaðar. Frá fimtándu öld höfum vèr miklar brèfagjörðir og dóma, mörg handrit eptir eldri bókum, sem sýna, að þær bækur voru þá lesnar og skrifaðar upp; annála rit, mörg kvæði merkileg og einkanlega rímnakveðskapinn, sem þá kom á lopt með miklu fjöri, og er mjög merkilegur í marga staði, þó hann sè ekki enn orðinn svo kunnur sem hann á skilið að verða. Þetta er nú það sem vèr þekkjum, en vèr getum verið fullvissir um, að mart er farið forgörðum af þeim ritum, sem samin hafa verið eða sett á bækur á fimtándu öld. Á sextándu öld þurfum vèr ekki annað en nefna Jón biskup Arason og kvæði þau, sem vèr höfum eptir hann, þó ekki sè mörg, til að sýna, að málið lifði á vörum hans í fullu fjöri; og ekki sèr heldur þurð á málinu til að fara með sèrhvert það efni, sem fylgði siðaskiptunum og þeirri andlegu hreyfíngu, sem þá kom á bókmentir og bókagjörð, eins á Íslandi og annarstaðar. Það er meira að segja, að mál vort og mentaðir menn höfðu nógan andlegan og þjóðlegan forða hjá sjálfum sèr, til að taka við og hagnýta sèr hið nýja, án þess að snúa málinu í aðra stefnu, eða setja nýja útlenda bót á innlent fat. Nokkru áður en siðaskiptin hófust var Jón Arason búinn að fá prentsmiðju til Íslands (um 1530), og var það ekki mjög laungu þar á undan að fyrst var farið að prenta bækur í Danmörku, en í Noregi var engin prentsmiðja sett fyr en laungu síðar. Starfsemi Guðbrands biskups og hans aðstoðarmanna mun verða uppi um aldur og æfi, og að vèr nefnum til sjálft málið á ritum hans, þá er það fjörugt og hreint, framar en á mörgum öðrum ritum sömu tegundar, bæði eldri og ýngri. Arngrímur prófastur hinn lærði á Melstað ritaði nokkuð á Íslenzku, bæði í ljóðum og í óbundnum stíl, en nafnfrægastur hefir hann orðið fyrir það, sem hann ritaði um Ísland á Latínu, og um forn fræði Norðurlanda, og er það nú harðla merkilegt að lesa, hversu allt það sem snerti sögu, átrúnað, bókmentir og allan fornaldar fróðleik Norðurlanda, var orðið öldúngis gleymt og umsnúið á ymsa vegu hjá þeim rithöfundum, sem voru farnir að bera við að setja saman bækur um þessi efni

í Svíþjóð, Danmörku eða Noregi[1], og hversu það var eins og nýtt ljós kviknaði í þessum vísindagreinum, þegar Íslendíngar fóru að skýra frá sínum fróðleik, svosem Arngrímur og Brynjólfur biskup Sveinsson, og síðan Þormóður Torfason, enda þó Íslendíngar sumpart sjálfir misskildi þá fornrit sín, og hinir dönsku vísindamenn misskildi bæði fornritin og skýríngar hinna. Rit þau sem þá komu fram sýna það ljóslega, að sú bókleg þekkíng, sem menn hafa um fornöld Norðurlanda, er gjörvöll að kalla má bygð á fornritum og skýrslum Íslendínga. Rit Ólafs Worms og brèf hans sýna þetta berlega, og eigi síður rit Stephanius og annara fleiri um þær mundir. En í þeim efnum, sem eg hèr einkum hefi fyrir augum, sem eru ritgjörðir á móðurmáli voru, þá eigum vèr þá rithöfunda frá þessari tíð, að þeir standa jafnfætis hverjum sem vera skal í sinni grein, svo sem er Hallgrímur Pètursson sem sálmaskáld, og Stephán Ólafsson og þeir Austfirðíngar sem kvæðaskáld. Ekki var þá heldur neinn skortur á rímnaskáldum, og sumum þeirra góðum, en sagnarit og lagarit, brèfabækur o. fl. eru ennþá til, sem bera vott um mikinn fróðleik og eru samin með skarpleika og á allgóðu máli, en í öllu tilliti vottar um það, að málið lifði með fullu fjöri undir túngurótum manna af öllum stèttum, eins og að undanförnu. Vèr munum ekki finna mörg betur samin lagarit af mentuðum lagamönnm þeirra tíða ànnarstaðar, en þau sem vèr höfum á Íslenzku eptir þá tvo bændur á seytjándu öld, Björn Jónsson á Skarðsá í Skagafirði og Bárð Gíslason í Vatnsdal í Rángár þíngi.

Vissulega getum vèr rakið feril til þess, að með átjándu öld komst nokkuð annað snið á þjóðlegar bókmentir vorar í ymsum greinum; en eigi að síður getum vèr sýnt einhver hin beztu nöfn íslenzkra rithöfunda frá þessari tíð. Árni Magnússon gaf ekki sjálfur margar bækur á prent, en hann lagði þann grundvöll til bóklegrar mentunar og íslenzkrar bókfræði handa löndum sínum, að hans menjar munu uppi verða meðan íslenzkra bókmenta er getið. Menn hafa bæði þá og síðan láð honum, að hann dró handritin út úr landinu, og safnaði þeim í Kaupmannahöfn; en hvað átti maðurinn að gjöra? — Hann

[1]) þessu til sönnunar má telja ótal dæmi, en eg tel einúngis eitt. Í ritgjörð um yms atriði í fornsögu Norðurlanda snemma á seytjándu öld, sem samin er á Dönsku, segir meðal annars: „En Konge har regieret over Hetland, som ellers kaldes Findland, ved Navn Fiormuter". þar er Hjaltlandi og Finnlandi blandað saman, og Fornjótr látinn heita Fiormuter. Slík og þvílík dæmi eru óteljandi.

sá, að þau handrit sem voru á víð og dreif í landinu, fóru daglega forgörðum. Þó mikið væri skrifað upp, áður en eldri handritin voru eyðilögð, þá voru þessar uppskriptir misjafnlega áreiðanlegar, og margar ónýtar, en Árni dæmdi um þetta mál sem vísindamaður og málfræðíngur, sem ekki lèt sèr nægja nema frumritin sjálf eða það sem þeim gat næst komizt. Vèr megum því þakka Árna það, að fjöldi handrita hefir frelsazt, sem annars væri horfin að fullu og öllu, og þó einstaka rit eða enda mörg hafi farizt einmitt fyrir það hann hafði þau undir hendi, eða átti þau þegar brann hjá honum, þá er það tjón miklu minna en hitt hefði orðið. En það er satt, að eptir að svo mikið og auðugt safn sem safn Árna var komið á einn stað, þá komst bókfræði Íslendínga og bókment á nokkuð annan veg en fyr; menn fengu nú svo auðugt safn af íslenzkum ritum frá öllum öldum, að menn gátu borið allt saman og haft vísindalegt yfirlit til að dæma um það; en þetta var einmitt vísindaleg framför, og hlaut að verða máli voru og bókmentum til hins mesta gagns, þegar svo lángt kom að vèr gætum fært oss það til nytja. Þessi framför var sýnileg jafnvel á tímum Árna sjálfs, á ritum þeirra manna, sem annaðhvort voru honum áhángandi, eða áttu kost á að nema fróðleik að honum.

Eg gat þess fyrir skömmu, að með átjándu öld komst nokkuð annað snið á þjóðlegar bókmentir vorar í ymsum greinum. Eg tek til dæmis í lögfræði, að þá var farið að innleiða smásaman lagaformið frá Norskulögum Kristjáns fimta, og þarmeð var kippt fótunum undan hinum fyrri lagafróðleik, sem var almennur meðal allra stètta, því einsog lögin voru nú sjálf útlend og á útlendu máli, eins urðu nú smásaman þeir einir lagamenn, sem höfðu lært hin útlendu lög við háskólann í Kaupmannahöfn. Hefði það þar eptir tekizt, að fá svo marga íslenzka eða danska háskólalærða lagamenn í einu í embættin á Íslandi, sem þurfti, þá hefði fljótt verið á enda hin forna lagamentan, í því formi, sem þángaðtil hafði við gengizt, en af því það var ekki hægt, þá eimdi enn sem áður lengi eptir nokkuð af þessari mentun, þó ekki kæmi hún fram í ritum sem fyr, eða á sama hátt. Hið seinasta rit, sem að efni og meðferð til er samtengt hinu eldra tímabilinu, má kallast rit það, eða rèttara að segja ritsafn, sem Páll Vídalín samdi um fornyrði Jónsbókar, enda er það einnig hið merkasta, því þó nokkrir hafi síðan samið smá-ritlínga í sama formi, þá má það fremur heita eptirstælíng en frumrit. Vísindalegar ritgjörðir eptir Íslend-

ínga, samsvarandi hinum nýja löggjafaranda, komu ekki fram fyr en síðar, og þá helzt á Dönsku eður Latínu. — En í mörgum öðrum greinum höfum vèr merka rithöfunda á voru máli að sýna á átjándu aldar fyrra hluta, og vil eg taka einúngis til dæmis Jón biskup Vídalín, Þorkelsson, sem varla mun eiga sinn maka sèr samtíða í andlegri mælsku, þó lengi sè leitað og menn leiti enn. Eg nefni til Jón prófast Halldórsson í Hítardal, sem hefir samið svo merkilegt rit um æfi biskupanna á Íslandi á Íslenzku, að það er grundvöllur kirkjusögu Finns biskups, sonar hans, sem er slíkt verk, að enginn hefir farið enn fram úr því á Norðurlöndum, þegar á allt er litið. Eg nefni til skáldin, svo sem Pál Vídalín, Eggert Ólafsson, Gunnar Pálsson, Þorlák Guðbrandsson; og marga fleiri mætti telja, bæði í þessum og öðrum vísindagreinum.

Um miðja átjándu öld fór að bóla á einskonar þjóðlegum ástríðum meðal Íslendínga. Lagamennirnir íslenzku lærðu sín dönsku lög við háskólann í Kaupmannahöfn og þau urðu þeim tömust, en þeir gleymdu æ meir og meir íslenzku lögunum, því þeir þurftu ekki í þau að líta, nema þar sem bændur heimtuðu sínar fornu venjur. Þar við bættist, að nú fóru menn að rakna við til að reyna að koma Íslandi á fót í allskonar veraldlegum efnum, og vonuðu að slíkt mundi takast allrabezt undir konúnglegri vernd og með örlæti Friðriks konúngs fimta, og í samvinnu við einokunarfèlag verzlunarmanna. Fyrir þessa viðleitni komu ymsar nýjar uppástúngur fram, nýjar tilraunir og nýjar hugmyndir, en útaf því risu aptur tvískiptar meiníngar meðal Íslendínga, og einkanlega þeirra í Kaupmannahöfn, sem voru farnir að gjörast framtakssamari um íslenzk mál en áður hafði verið. Oddvitar fyrir flokkum þessum voru helztir þeir Eggert Ólafsson og Hannes Finnsson, og voru þeir kallaðir stundum bændasona flokkur, sem með Eggerti voru, en hinir biskupssona flokkur; en það var einkenni flokka þessara, að bændasona flokkur vildi semja sig öldúngis að fornum sið íslenzkum, og ekki sníða sèr útlendan stakk í neinu, heldur laga það allt sem maður lærði að íslenzkum hætti, og sömuleiðis færa málið, klæðasnið, siðu og þjóðvenjur, í stuttu máli allt, sem mest varð, aptur í fornan farveg að fullu og öllu; en biskupssona flokkur vildi að öllu semja sig að háttum annara þjóða, og einúngis halda því sem íslenzkt væri að því leyti sem það væri enn við lýði og þætti betur fara. Sumir fóru lengra á báða bóga, og svo hefir lengi verið í minnum það tvennt: á einn bóginn, að

þegar Sveinn lögmaður Sölvason ritaði formála fyrir bók sinni, sem hann kallaði Tyro juris eða barn í lögum, og átti að vera einskonar handbók í lögum handa alþýðu á Íslandi (Khöfn 1754. 8vo.), þá segir hann í formála bókarinnar á þessa leið: „þarnæst meðkenni eg vel, að hèr finnast ógjarnan gömul gullaldar orð, sem nú eru komin úr móð, og að eg þarímót hefi stundum hjálpazt við þau orð, sem dregin eður samsett eru af Dönskunni, hvað eg held engin spjöll, þar vor lög nú á tíðum eru mestan part frá Dönskum komin, og án hennar kunna menn ekki að vera í rèttargánginum; og svo sem vor efni í flestum sökum dependera af þeim Dönsku: því má þá ekki einnig vort túngumál vera sömu forlögum undirorpið?" — En þó þetta sýnist vera voðaleg orð fyrir móðurmál vort, og ekki sízt þegar þau voru töluð af einum hinum æðsta embættismanni landsins, einsog hèr var, þá urðu þau þó ekki þar eptir hættuleg, því túngumál og þjóðerni verða ekki vegin með orðum einum. Sama varð ofaná fyrir Magnúsi sýslumanni Ketilssyni, þegar hann tók uppá að gefa út mánaðarblað á Dönsku, í þeim tilgángi að hæna Dani betur að sèr og að Íslendíngum, að það blað gat varla haldizt við um þrjú ár (Oktbr. 1773 til Septembr. 1776) og varð þar með útideyða. En aptur á móti þessu voru einnig nokkrir Íslendíngar, sem tóku uppá að fornyrða svo í ritum sínum, eða rèttara að segja búa til nýgjörvínga í fornaldar búníngi og með stafsetníng, sem átti að kallast forn, að þeir gátu varla orðið skildir, hvort þeim þeir rituðu bækur eða ortu kvæði. Ekki vantaði heldur á þessum tímum þá menn, sem stunduðu almenna bókfræði Íslendínga, og er kunnugastur meðal þeirra Hálfdan Einarsson, skólameistari og stiptprófastur á Hólum, sem ritaði bókmentasögu Íslendínga á Latínu (Sciagraphia historiæ literariæ Islandicæ 1777) og safnaði og bjó til prentunar rit nokkurra merkilegra höfunda, einkum sálma og kvæði, og er hans frágángur á því í alla staði vandaður og merkilegur á þeirri tíð.

Með þessu móti vaknaði smásaman hugur Íslendínga af stúdentaflokki, til að reyna að stofna íslenzkt fèlag „til að viðhjálpa sèrhverjum þeim listum og mentum, er Íslandi virðist mest þörf á vera", var þar einkum tiltekið: bústjórnar vísindi, sömuleiðis náttúrleg guðfræði, heimspeki, náttúruspeki, mælíngarfræði og snotur vísindi, og settar reglur um, að sporna við útlendum orðum, heldur skyldi felagið „geyma og varðveita norræna túngu sem eitt fagurt

aðalmál, er lánga æfi hefir talað verið á Norðurlöndum". Þetta fèlag var í fyrstu stofnað á fundi tólf íslenzkra stúdenta, sem haldinn var einmitt hèr á Borchs collegio (hinu fyrra) 30. August 1779, fyrir forgaungu þeirra Ólafs Ólafssonar, síðar prófessors og kennara á Kóngsbergi í Noregi, og Þórarins Sigvaldasonar Lilliendals, en síðan stóð hinn nafntogaði Íslendíngur **Jón Eiríksson** fyrir að semja lögin og koma fèlagsins aðgjörðum á fastan fót. Um hans daga stóð þetta „íslenzka lærdómslista fèlag" með góðum blóma, en eptir hans fráfall varð það ekki lánggætt. Nokkrir af hinum ýngri Íslendíngum, sem þá voru uppi, fyrst Magnús Stephensen og síðan Árni Sigurðsson, reyndu til að endurreisa fèlagið á ný, en það heppnaðist ekki. Þetta var þó enganveginn því að kenna, að bókmenta fýsn væri dauf á Íslandi um þær mundir, heldur kom það miklu fremur þar af, að sú stefna, sem Jón Eiríksson hafði mest framfylgt: að fá stjórnina til að gjörast leiðtogi til allra framkvæmda, og styrkja hana með því að leiðbeina með ritgjörðum því sem þurfti að fá framgáng. Þessi stefna breyttist nú að mestu við fráfall hans; fèlagið hafði þá ekki lengur talsmenn í stjórnarráðinu; það misti þá aðstoð, sem það hafði áður haft, að úngir Íslendíngar fengi leiðbeiníngar til að kynna sèr nytsamar listir, og hvatir til að semja um þær ritgjörðir. — En þegar aðgjörðir lærdómslista fèlagsins fóru að dofna, gekkst Magnús Stephensen fyrir að stofna hið íslenzka landsuppfræðíngar fèlag, sem hafði aðsetur sitt og allan aðalstyrk á Íslandi. Þetta fèlag stóð í fyrstu með hinum mesta blóma, leysti til sín báðar prentsmiðjurnar og gaf út mörg rit; en þegar nokkur ár voru liðin, þá komu bágar tíðir uppá og ýmislegt annað, svo að það sýndi sig að Magnús Stephensen varð einnsaman að bera allan fèlagsins þúnga. Sú stefna sem Magnús fór fram var í raun og veru hin sama sem Jón Eiríksson hafði haft, en hún tók miklu meira fyrir sig. Í stað þess, að Jón hafði tekið fram þær vísindagreinir, og styrkt til að koma fram nýjum ritgjörðum einúngis um þau efni, sem horfðu til framfara landsins í öllum verknaði og framkvæmdum, en gekk í öllum öðrum greinum eptir alþýðlegum íslenzkum hugsunarhætti, þá fór Magnús miklu lengra, og vildi koma öllum bókmentum Íslendínga á nýjan fót, eptir þeim skoðunum, sem voru drottnandi á ofanverðri átjándu öld og framanaf þessari. Það er ekki ætlan mín hèr, að skýra nákvæmlega frá þessari stefnu, eða að vega hvert af þeim ritum, sem komu út að tilhlutun landsuppfræðíngar

fèlagsins. Eg vil einúngis geta þess, að eg held enginn geti borið á móti, að rit þessi hafi á margan og margvíslegan hátt glædt og lífgað almenna mentun og þekkíngu meðal landa vorra, og einkanlega vakið hugsjónir þeirra um marga nytsama hluti, sem þeir höfðu ekki áður haft tækifæri til að kynna sèr. En mart olli því, að aðgjörðir þessa fèlags deyfðust einnig smásaman. Þær öflugu máttarstoðir, sem fèlagið hafði upphaflega, þar sem var Hannes biskup Finnsson að lærdómi, nærgætni, lempni og ritsnild, Ólafur Stephánsson stiptamtmaður að virðíngu, hagsýni í öllum athöfnum og að búmannlegu viti, og margir aðrir að ymsum framkvæmdum og liðsemd í ritstörfum og kenníngum, þær stoðir brustu smásaman og fækkuðu, og Magnús Stephensen varð svo að kalla einn eptir síns liðs. Sú stefna, sem hann hafði tekið, var ekki svo alþýðleg sem vera þurfti, og mætti ómildum dómum og mótspyrnum, sem ekki kunnu að meta hið góða, og leggjast á eitt til að draga það fram, en hèldu sèr einúngis við hitt, sem milli bar til ágreiníngs. Þar að auki voru svo miklir örðugleikar þá um hríð á öllum aðdráttum til þess sem prentsmiðjan þurfti, að það var að kalla mátti því nær ókljúfanda að halda störfum hennar í nokkru horfi, þegar hvergi mátti eiga viðskipti nema í Kaupmannahöfn. Landsuppfræðíngar fèlagið og prentsmiðjan á Íslandi voru því rètt að segja lögzt í dá og aðgjörðalaus frá því 1812 og þar til 1816.

Þegar svona stóð, þá var ekki að furða þó ekki liti vel út fyrir bókmentum og þjóðerni voru Íslendínga. Lærdómslista fèlagið var orðið einsog útideyða, þó það væri ekki verulega dautt, því allar tilraunir að lífga það til framkvæmda höfðu misheppnazt. Landsuppfræðíngar fèlagið gat ekki komið sèr við með nein störf, þegar ekkert fèkkst sem á þurfti að halda, og þar að auki var fèlagið komið í það óefni, að stefna þess hafði í sumum greinum ekki verið að skapi landsmanna, og hafði því fèlagið mist hylli þeirra. Þeir vildu hafa sín fornu og góðu rit, sem þeir þekktu, en forstöðumaður fèlagsins vildi hafa flest nýtt, og leggja nær allar hinar gömlu bækur fyrir óðal. Það má sjá, að Íslendíngar sjálfir voru um þessar mundir farnir að telja það víst, að málið væri á förum. Vott þessa má sjá í skýrslu nokkurri, sem stjórnarnefndin fyrir stofnun Árna Magnússonar ritaði til konúngs 1811, og er líklega samin af skrifara nefndarinnar Grími Thorkelín, en undirskrifuð ásamt honum af Skúla Thorlacius skólameistara og Byrgi prófessori syni hans. Þar segja

þeir í skýrslunni, að kunnátta í íslenzkri túngu fari ávallt hnignandi (eiginlega að skilja meðal Íslendínga í Kaupmannahöfn), og málið sè smásaman að spillast, svo að „hin svokallaða (!) Íslenzka" muni innan skammrar stundar útaf deyja, einsog Engilsaxneskan í fornöld. Á Íslandi sjálfu var óttinn fyrir því varla mikill, að málið mundi deyja út, því eg held menn hafi ekki fundið á sèr þar almennt, að málinu færi aptur, en hitt var fremur, að menn fundu til þess, að bókmálið var farið að fá á sig annað snið en hið daglega málið, og kom það af því, að ymsir menn höfðu tekið fyrir sig að snúa útlendum ritum og kvæðum, án þess að vera til hlítar færir um að koma á þau íslenzkum blæ.

Yður er öllum kunnugt nafn Rasmusar Rasks, hins fræga málfræðíngs. Eg þarf heldur ekki að rekja æfi hans fyrir yður[1], því enginn þekkir hana betur en vèr Íslendíngar, enda höfum vèr eptir megni stuðlað til að halda hans minníng uppi, og einkum fèlag vort, einsog verðugt er, ekki sízt um þann tíma, sem fáir urðu til að halda orðstír hans á lopt í föðurlandi hans sjálfs. Eg skal einúngis geta þess, að Rask var fæddur á Fjóni 22. November 1787 af fátækum foreldrum, var settur til menta og vann sèr þegar í skóla nafn og álit fyrir einstaklega málfræðisgáfu. Meðal annars hafði hann þar byrjað á að lesa íslenzkar bækur, og bjó sèr þá sjálfur til orðabók og málmyndalýsíng, því hvorki var þá um auðugan garð að gresja af þesskonar bókum, og ekki heldur voru efnin fyrir hendi til að kaupa þær. „Það skal vera mín huggun og gleði", skrifaði hann um það mund einum af vinum sínum, „að læra þetta mál, og að sjá af ritum þess, hversu menn hafa fyrrum þolað andstreymi og með hreysti klofið það. Eg læri ekki Íslenzku til þess að nema af henni stjórnfræði eða hermennsku, eða þesskonar, en eg læri hana til þess að geta hugsað eins og maður, til þess að útrýma þeim kotúngs og kúgunar anda, sem mèr hefir verið innrættur með uppeldinu frá blautu barnsbeini, til þess að stæla hug og sál, svo eg geti gengið í hættur óskelfdur, og að sál mín kjósi heldur að segja skilið við líkamann, en að breyta útaf því eða afneita, sem hún hefir fengið fulla og fasta sannfæríng um að sè satt og rètt." — Rask kom til háskólans í Kaupmannahöfn 1807, og var þá fljótt komin vinátta milli

---

[1]) Hið helzta um æfi Rasks er í ritgjörð eptir N. M. Petersen í Rasks samlede Afhandlinger I, 1—115, sbr. Erslews Forfatter-Lexikon u. n. Rask (Rasmus).

hans og Íslendínga þeirra, sem þá voru við háskólann, svosem voru þeir Árni Helgason, Bjarni Þorsteinsson, Bjarni Thorarensen, Grímur Jónsson, Hallgrímur Scheving o. fl. — Eptir að hann hafði verið nokkur ár í Kaupmannahöfn, fèkk hann styrk til að ferðast til Íslands, og kom þar um haustið 1813; ferðaðist hann þá fyrst upp í Kjós, að Reynivöllum, til síra Árna Helgasonar, vinar síns, sem þá var þar prestur, síðan fór hann nokkuð um kríng á Suðurlandi, kom að Skálholti, heimsókti síra Steingrím Jónsson, sem þá var prestur í Odda, sneri síðan aptur að Reynivöllum og var þar um veturinn hjá síra Árna, en sumarið eptir fór hann norður, og heimsókti þá Jón Espólín og síra Jón Þorláksson. Hann kom að Hólum í þeirri ferð, og síðan að Möðruvöllum til Stepháns amtmanns Þórarinssonar. Þá fór hann lengra norður og allt austur í Múla sýslur, síðan suður um hèruð og í kríng og kom um haustið til Reykjavíkur, eptir að hann hafði komið við í annað sinn hjá síra Steingrími í Odda, var svo annan vetur hjá síra Árna, sem var þá orðinn dómkirkjuprestur í Reykjavík (27. Mai 1814). Vorið eptir fór hann upp í Borgarfjörð, að heimsækja Magnús Stephensen á Innrahólmi og sjá aðsetur Snorra Sturlusonar í Reykholti; þaðan hèlt hann alla leið vestur í Ísafjörð, til að heimsækja Jón sýslumann Johnsonius, og að Holti í Önundarfirði til að heimsækja síra Þorvald Böðvarsson; síðan sneri hann aptur til Reykjavíkur og fór utan um haustið.

Fyrra veturinn sem Rask var hjá síra Árna kom það opt á tal milli þeirra, að koma á fèlagi meðal Íslendínga, sem skyldi efla og styðja bókmentir þeirra. Rask vildi, að þeir skyldi báðir saman bjóða til þessa fèlags og útvega menn til að gánga í það og leggja til þess; var þá sú hugsun hans, að fèlagsmenn skyldi að eins leggja fram fè, og skyldi því verja til að gefa út rit þau sem fengist, forn eða ný, en fèlagið skyldi ekkert rit kaupa til prentunar, og ekki heldur láta fèlagsmönnum neinar bækur í tè fyrir styrk þeirra. Ekki vildi síra Árni eiga þátt í að útvega fèlagsmenn, en hann rèði til, að Rask talaði við menn á ferð sinni og fengi þá til að safna tillögum, en það sem safnaðist leyfði hann að mætti senda sèr og skyldi menn svo sjá hvað aflaðist. Rask fylgdi þessu ráði, og vann með því á ferð sinni hið fyrra sumarið fyrir norðan og austan ymsa menn, til að gángast fyrir að safna tillögum og senda síra Árna síðan. Það var sýnilegt, að allir hinir merkari menn fundu til þess, að mál og bókmentir landsins þurftu stuðníngs við, og að það var skylda hvers

eins, sem Íslendíngur vildi heita, að styrkja þar að. Þeir vissu bæði það, að til voru rit merkra höfunda bæði að fornu og nýju, sem landinu og þjóð vorri var hinn mesti sómi að; þeir vissu einnig, að vantaði íslenzkar kennslubækur í skólanum, og það er í augum uppi, að ekkert er skæðara en þetta til að koma blendíng málsins inn í alla kennslu og þarmeð inn í allt bókmál um vísindaleg efni. Þetta og meira var mönnum ljóst og hlaut að vera svo. En Íslendíngar voru dulir og óframgjarnir, og enginn vildi verða fyrstur til að kveða upp með það sem þurfti, varð svo ekkert af framkvæmdum, af því hver beið eptir öðrum, eða taldi sèr trú um, að einn fyrir sig gæti engu komið til leiðar, eða að þjóðinni allri og máli hennar færi hnignandi, og við því yrði ekkert gjört. En Rask sagði þeim aptur: Þjóðinni hnignar ekki, nema þið hver um sig látið henni hnigna, þið, sem eigið að vera samtaka að halda henni við og efla blómgun hennar; málinu hnignar heldur ekki, nema þèr sjálfir látið því hnigna og ofurselið það. Ef þið hafið hug og dug til að reiða upp sverðið, þá dettur af því ryðið, og það er eins hvast og bjart eins og það hefir nokkru sinni verið. Með þessum og þvílíkum fortölum vann hann ymsa til að lofa að styrkja íslenzkt bókmentafèlag, og senda þau tillög sem fengist til Reykjavíkur í hönd síra Árna.

Um veturinn sem Rask var í Reykjavík átti hann tal um þetta mál við Geir biskup Vídalín, og tók hann vel undir að veita því sinn styrk og meðmæli; en það meðmæli mátti sèr mikils hjá prestastèttinni. Eptir undirlagi við biskupinn samdi Rask um veturinn boðsbrèf og frumvarp, hversu hann hugsaði sèr fèlag stofnsett til að koma á prent ágætum ritum, sem til eru á Íslenzku, og hversu þessu fèlagi skyldi háttað vera. Boðsbrèf þetta er dagsett í Reykjavík 27. Februar 1815[1]. Skömmu síðar sendi biskupinn þetta boðsbrèf með umburðarbrèfi til allra prófasta, dagsettu í Reykjavík 10. Marts 1815[2], og mælti þar fram með þessari fyrirætlun; gat hann þess, að „ef nokkuð töluvert safnaðist af fè til framkvæmdar þessa fyrirtækis, og ef ekki skorti duglega forstöðumenn, þá mundi það á margan hátt efla gagn og heiður landa vorra, og einkum verða voru ágæta móðurmáli til viðrèttíngar og varðveizlu". Eg get

[1]) sjá Fylgiskjal 1.
[2]) sjá Fylgiskjal 2.

þess til að sýna, hversu örðugt var um allar framkvæmdir á Íslandi í slíkum efnum um þær mundir, að ekkert af þessum boðsbrèfum var prentað, heldur varð biskup að láta skrifa boðsbrèf Rasks og meðmælisbrèf sitt til allra prófasta, en prófastar að skrifa upp hvorttveggja aptur til að senda prestunum.

Þegar Rask fór vestur, um sumarið eptir, hafði hann alla hina sömu meðferð og hann hafði haft fyrir norðan og austan um sumarið áður, og fèkk hann enn loforð um styrk og liðsinni margra. En þegar þeirri ferð var lokið, og hann kom aptur til Reykjavíkur, hafði hann ekki lángar viðdvalir, og fór alfarinn frá Íslandi að áliðnu sumri 1815 og ætlaði til Kaupmannahafnar. En áður en hann fór hafði hann lagt svo undir, að síra Árni skyldi vera forseti, Sigurður landfógeti Thorgrimsen fèhirðir og Halldór Thorgrimsen sýslumaður skrifari í fèlaginu, sem þá var stofnað, og vantaði ekki annað en samþyktir á fundum. Skip það, sem Rask var með, kom á leiðinni við í Leith á Skotlandi, og var hann nokkrar vikur þar og í Edínaborg, kynntist hann þar ymsum merkum mönnum, og bar fram meðmæli sitt fyrir hið íslenzka fèlag. Það brèf er ritað í Leith 21. Septembr. 1815 á ensku máli[1]. Eptir það hann var kominn aptur til Kaupmannahafnar, og hafði tekið við embætti sínu við bókasafn háskólans, sem honum var veitt árið áður (1814), meðan hann var á Íslandi, hèlt hann fram sömu umræðum og fyr við kunníngja sína, og skýrði þeim frá hvað afrekazt hafði á Íslandi. En á nýjársdag 1816 lèt hann gánga út boðsbrèf til Íslendínga og Íslands vina í Kaupmannahöfn[2], að styrkja það hið íslenzka fèlag, og ef svo margir yrði styrktarmenn, að önnur deild fèlagsins gæti orðið stofnsett, þá vildi hann kalla þá saman til fundar í þessu skyni. Á boðsbrèf þetta rituðu nöfn sín 33 Íslendíngar alls, embættismenn, kandídatar, stúdentar, kaupmenn og iðnaðarmenn, og lofaði hver þeirra frá 3 til 20 ríkisdala styrk á ári í silfurverði, svo að það varð alls, sem lofað var, hèrumbil 230 rdlr. í silfri árlega; en þar að auki lofaði hinn ágæti höfðíngi Byrgir prófessor Thorlacius, sem ritaði sig í hóp Íslendínga, að gefa fèlaginu 100 rdl. silfurverðs á ári, ef fèlagið vildi láta prenta Sturlúngu eða annað sögulegt fornrit óprentað, og skyldi það tillag haldast meðan á þeirri útgáfu stæði. —

---

[1]) sjá Fylgiskjal 3.
[2]) sjá Fylgiskjal 4.

Þessi styrkur jók töluvert efni þau, sem fyrir hendi voru, þegar þarmeð safnaðist það sem vænta mátti frá Íslandi, svo að Rask gat nú stefnt mönnum til fundar. En um sama leyti og það var gjört gaf hann út boðsbrèf á Dönsku, sem ætlað var til að sýna merkismönnum dönskum, embættismönnum og öðrum megandi vísinda elskurum, sem kynni vilja styrkja fèlagið með peninga tillögum. Þetta hið danska boðsbrèf er gefið út 27. Marts 1816[1], og hafði það einnig töluverðan árángur, því að ymsir danskir höfðíngsmenn, einkum þeir, sem nokkuð höfðu verið viðriðnir stjórn íslenzkra mála, veittu annaðhvort gjafir eða lofuðu árlegu tillagi. Greifi Adam Vilh. Moltke að Bregentved, einn af ráðherrunum í rentukammerinu, lofaði fèlaginu þá þegar 100 ríkisdölum árlega, og hèlt því síðan meðan hann lifði, um 47 ár. Castenschjold, sem hafði verið stiptamtmaður á Íslandi, gaf í eitt skipti 200 rbd., og aðrir fleiri gáfu eða lofuðu töluverðum styrk, þar á meðal hinn nafnfrægi öðlíngur Jóhann Bülow að Sanderumgarði á Fjóni, sem lofaði 50 rbd., en sendi síðan 110 rbd., og gaf þareptir meðan hann lifði frá 60 til 110 rbd. árlega.

Rask stefndi nú til fundar, og var samkoma haldin í stofu háskólabókasafnsins, er þá var á sívala turni. Á fundinum, sem haldinn var **30. Marts 1816**, mættu 33 menn, og var þá samþykkt að stofna fèlag í Kaupmannahöfn, að dæmi hins, sem Rask skýrði frá að væri að myndast á Íslandi, og menn gjörðu ráð fyrir að þá væri þegar á stofn sett. Mönnum kom og ásamt um, að nauðsyn væri að kjósa þá þegar forseta, fèhirði og skrifara, til að stjórna fèlagsins efnum. Var því næst kosið, og var til forseta kjörinn Rask, til fèhirðis Grímur Jónsson og til skrifara Finnur Magnússon. Forsetinn lofaði því næst að semja frumvarp til laga handa fèlaginu, og láta það gánga um kríng meðal fèlagsmanna. Þetta var hinn fyrsti fundur deildarinnar í Kaupmannahöfn, og er síðan afmælisdagur hins íslenzka Bókmentafèlags talinn að vera 30. Marts 1816, en ekki var fundur þessi bókaður sèrílagi, heldur er aðgjörða hans getið að eins við næsta fund á eptir. Þessi hinn næsti fundur var haldinn laugardaginn fyrir páska, 13. April 1816, og er það hinn fyrsti fundur, sem er ritaður í samkomubók deildar vorrar hèr[2]; var þar lagt

[1]) sjá fylgiskjal 5.
[2]) sjá fylgiskjal 6.

fram lagafrumvarp það, sem Rask hafði samið, með athugagreinum fèlagsmanna, og það lögtekið sem á þurfti að halda til þess að geta tekið til starfa, en þær greinir, sem snertu samband beggja fèlagshluta, eða deildanna hèr og á Íslandi, voru ekki lögleiddar að sinni, heldur var ákveðið að senda frumvarpið til hins íslenzka fèlags og bíða þess atkvæða um þetta efni. Þarnæst voru kosnir vara-embættismenn þrír, sem lögin gjörðu ráð fyrir, og var kosinn til varaforseta Bjarni Þorsteinsson, varafèhirðir Kjartan Isfjord, varaskrifari Vigfús Thorarensen.

Fèlagið á Íslandi hafði ennþá ekki haldið fund hjá sèr, en þeir þrír menn, sem með Rasks ráði höfðu tekizt á hendur stjórn þess, og einkum forseti þeirra síra Árni, höfðu annazt fèlagsins efni. En eptir að þeir höfðu fengið fregnir um, að stofnan fèlagsins í Danmörku hafði haft æskilegan framgáng, þá stofnuðu þeir einnig til fundar með sèr og fèlögum sínum, og var þeirra fyrsti fundur haldinn í Reykjavík fimtudaginn 1. August 1816[1]. Á þeim fundi var lagt fram það frumvarp til laganna, sem komið var frá fèlaginu í Kaupmannahöfn, og var ákveðið að geyma ályktun um það til næsta fundar, sem skyldi verða haldinn innan skamms, en kosníngar embættismanna og vara-embættismanna fóru fram þá þegar, og voru þeir sömu þrír menn til forráða kosnir, sem höfðu tekið að sèr forstöðuna, en til vara-embættismanna voru þeir valdir: Ísleifur Einarsson varaforseti, Bjarni Thorarensen varaskrifari og Lektor Jón Jónsson varafèhirðir. Hinn næsti fundur var haldinn á fimtudaginn 15. August 1816, og hefir forsetinn síra Árni skýrt frá honum í brèfi til Rasks sama dag[2]. Þar var samþykkt lagafrumvarpið, og þarmeð ákveðið, að bæði fèlögin skyldi sameinast og vera tvær deildir í einu fèlagi, er skyldi heita **hið íslenzka Bókmentafèlag**. Athugasemdir nokkrar, sem Hallgrímur Scheving hafði ritað við lagafrumvarpið, og sem einkum snerti málið á því, voru sendar með frumvarpinu til hugleiðíngar fyrir deildina í Kaupmannahöfn. Til þess að sjá um efni fèlagsins og gagn þess voru kosnir umboðsmenn í hèruðum á Suðurlandi og Vesturlandi; fyrir norðan hafði forseti deildarinnar, síra Árni, falið Stepháni amtmanni Þórarinssyni á hendur

[1]) sjá fylgiskjal 7.
[2]) sjá fylgiskjal 8.

að velja umboðsmenn, en í Austfjörðum hafði Páll Melsteð sýslumaður tekið að sèr umboð fèlagsins.

Þegar þessar skýrslur og lagafrumvarpið komu frá Íslandi var Rask farinn að búa sig undir sína miklu austurför, og gat því ekki verið viðstaddur eða tekið þátt í hinum endilegu úrslitum þessa máls, heldur varð hann að fela það vinum sínum, sem svo fúslega og alúðlega höfðu studt hann í framkvæmd þessa verks; enda sýndi það sig og, að þetta var ekki misráðið og framkvæmdin kom í góðar hendur. Rask stefndi nú til fundar 18. Oktober, og skýrði þar frá fyrirætlun sinni; kusu menn þá varaforsetann Bjarna Þorsteinsson til forseta, en Jón Hannesson Finsen í hans stað til varaforseta. Skömmu síðar hóf Rask ferð sína (25. Oktobr.), og kom ekki aptur fyr en 5. Mai 1823 til Kaupmannahafnar. Eptir burtför hans var það um stund, að menn lètu sèr ekki annt um að fá lög fèlagsins fullgjör, og hugsuðu meira um störf þess og framkvæmdir; gekk svo þartil um haustið 1817, og kom mönnum þá saman um, að bezt væri að kjósa nefnd manna til þess að segja álit sitt og uppástúngur um lagafrumvarpið, og þau breytíngar-atkvæði, sem við það voru fram komin (7. Novbr. 1817). Í nefnd þessa voru þeir kosnir: Bjarni Þorsteinsson (forsetinn), Finnur Magnússon (skrifarinn) og Sveinbjörn Egilsson. Þessi nefnd hafði lokið störfum sínum skömmu eptir nýjár um veturinn, og voru lögin síðan rædd og samþykkt á þrem fundum (22. Febr., 1. Marts og 23. Marts 1818) og síðan prentuð af þeim 1000 að upplagi þá um vorið. Þarmeð var þá hið íslenzka Bókmentafèlag fullkomlega stofnsett og lögum bundið, sem í öllum aðalatriðum að kalla má hafa staðið óbreytt híngaðtil.

Eg hefi verið lángorður um þenna aðdraganda fèlagsins og um stofnun þess, af því að mèr finnst það eiga við nú, og við þetta tækifæri, að skýra nokkurnveginn ítarlega frá hvorutveggja. Það er bæði merkilegt atriði í bókmentasögu lands vors, og það er hvergi auglýst í ritum fèlagsins nè annarstaðar svo nákvæmlega eða fullkomlega sem skilríki eru til. Og þó eru þessi skilríki nú ekki svo auðfundin, sem vèr skyldum ímynda oss, því eg get fremur sagt, að það sè af hendíngu að eg hefi fundið eða fengið sum þeirra, heldur en að eg vissi hvar þeirra væri að leita. Það hefir enn framar hvatt mig til að lýsa þessum atriðum nokkru nákvæmlegar, en ella hefði verið þörf, að

þetta liggur fyrir framan flestra okkar minni, sem hèr erum saman komnir, þó enn lifi þeir nokkrir á Íslandi, sem hafa átt einna mestan og beztan þátt í þessari stofnun vorri. En nú get eg einnig verið því fáorðari um sjálfar athafnir fèlagsins á þess umliðinni æfi, af því stofnendur þess og fyrstu stjórnendur hafa búið svo vel undir, bæði með lögum og venju, að fèlagsins athafnir liggja ljósar fyrir í hinum árlegu skýrslum þess og reikníngum, svo að eg hefi ekki annað að gjöra, en að taka saman og leiða fram fyrir yður lítið yfirlit, til þess þèr sjáið þar af hvað fram hefir farið: hverir efnakraptar og fèlagastyrkur hefir verið, og hversu þeim hefir varið, hverjar stefnur fèlagið hefir tekið, og hvað það hefir afrekað á þessum fimmtíu árum, sem það hefir verið að störfum.

Lög fèlagsins sýna ljóslega, hverjar grundvallarreglur Rask og þeir stofnendur fèlagsins höfðu fyrir augum, bæði í sjálfri stjórn fèlagsins og í framkvæmdum þess. Það er auðráðið, að þeir hafa í hvorutveggju leitazt við að haga fèlaginu svo, að það gæti orðið sem nytsamlegast og sem þjóðlegast, og sneydt einkanlega hjá þeim skerjum, sem hin fyrri fèlög, lærdómslista fèlagið og landsuppfræðíngar fèlagið höfðu strandað á. Öll stjórn fèlagsins var löguð svo, að Íslendíngar skyldi sjálfir ráða fèlagi sínu; þessvegna var ákveðið með lögum, að engan skyldi mega kjósa til embætta í fèlaginu nema Íslendíng, eða þann sem væri jafnoki íslenzkra manna að þekkíngu málsins og landsins, og sömuleiðis það, að deildin á Íslandi skyldi vera aðaldeild og bera ægishjálm yfir öllu fèlaginu. Menn vissu, að lærdómslista fèlagið hafði valið danska forstöðumenn, og haft stjórn sína einúngis frá Kaupmannahöfn, og menn fundu, að þetta var aðalundirrót til hnignunar fèlagsins, því fyrir það hið sama vildu ekki Íslendíngar sjálfir leggja rækt við það. Um framkvæmdir fèlagsins vildu menn sigla fyrir það sker, sem landsuppfræðíngar fèlaginu hafði orðið að fjörlesti, að laga sig ekki nóg eptir þjóðlegri tilfinníngu Íslendínga. Þessvegna var það lögsett, að koma út á prent góðum ritum merkra manna, sem dánir voru, þareð menn gátu óttast fyrir að rit þeirra mundu týnast ella, en ekki prenta ný rit eingaungu. Þarmeð var það ásetníngurinn, að efla sem mest mentun og þekkíngu Íslendínga, ekki einúngis meðal alþýðu, heldur og einnig meðal hinna mentuðu manna. Til að koma þessu til leiðar átti fèlagið að gefa út árlega tímarit, svo menn gæti af því fengið greinilegt yfirlit um

merkisatburði, sem yrði á hverju ári, og um helztu bækur sem út kæmi á prenti. Að því leyti snerti Ísland sèrílagi, þá skyldi fèlagið auka og efla þekkíng Íslendínga á öllu því, sem snerti sögu landsins og ástand. Að síðustu ætlaði það sèr einnig að prenta sèrílagi kennslubækur handa skólanum. Þó vildi fèlagið forðast að koma í bága við önnur fèlög, og tók því undan guðfræði og eiginleg fornfræði, af því að hið evangeliska smábókafèlag fyrir norðan, sem síra Jón á Möðrufelli stjórnaði, og Árna Magnússonar nefndin í Kaupmannahöfn höfðu þessar greinir að annast. Þessu var þó síðan breytt, og fèlagið er nú ekkert takmarkað í framkvæmdum sínum að þessu leyti.

Nú skulum vèr sjá, hversu fèlaginu hefir tekizt að koma fram ætlunarverki sínu, og verður oss hægast að ná yfirliti um það, með því að skipta tímabili þessu í þrjá kafla:

1) um árin frá upphafi fèlagsins 1816 til þess 1831, að Rask sleppti alveg forsetadæminu, sem er 15 ár.
2) um árin 1831 til þess 1850, að uppdrættir Íslands voru alveg búnir, sem er 20 ár.
3) um árin 1850 til þess nú, sem er 15 ár.

1. Á hinu fyrsta tímabilinu voru báðar deildir fèlagsins undir stjórn stofnendanna sjálfra: í deildinni á Íslandi var síra Árni Helgason forseti allan þenna tíma, og í deildinni í Kaupmannahöfn Rask, Bjarni Þorsteinsson og Finnur Magnússon. Hinn fjórði maður, sem átti mikinn þátt í stofnun fèlagsins, Grímur Jónsson (síðan amtmaður fyrir norðan), tók einúngis þátt í stjórn þess þrjú fyrstu árin, og var fèhirðir og bókavörður deildarinnar í Kaupmannahöfn, en síðan fèkk hann embætti annarstaðar, og gat því ekki átt neinn verulegan þátt í fèlagsins athöfnum, en sýndi þó ætíð fèlaginu og þess aðgjörðum umhyggjusamlegt og vinsamlegt athygli þegar svo bar undir. Deildin á Íslandi tók í fyrstu á móti öllum nafnaskrám þeirra, sem höfðu lofað fèlaginu styrk, allstaðar að um landið, og forsetinn í deildinni á Íslandi sá um, að styrkur þessi kæmist deildinni hèr sem fyrst í hendur. Vèr höfum enn þessar nafnaskrár styrktarmanna fèlagsins á Íslandi, og sýna þær, að tala fèlagsmanna um næsta ársfund var orðin nærfellt 400 á Íslandi, en 36 voru þá í Kaupmannahöfn; síðan fjölgaði nokkuð enn, og var talið að alls hefði orðið 600 fèlagsmenn eða styrktar-

menn á Íslandi þegar flest var; hefir fèlagatalan aldrei verið eins há þaðan af og til þess 1857. Fjárstyrkur sá, sem fèlagið fèkk frá Íslandi hið fyrsta ár, var töluverður, því þaðan kom í tillögum 1550 rbd. n. v., en í Danmörk kom inn í tillögum og gjöfum hèrumbil 800 rbd. n. v. Alls voru tekjur fèlagsins á fyrsta reikníngsárinu (frá 30. Marts 1816 til 30. Marts 1817 tilsamans hèrumbil 2350 rbd., en útgjöldin hèrumbil 800 rbd., svo að fèlagið hafði á þessu ári grædt rúma 1500 rbd., og var sett á vöxtu af því 400 rbd. — Annað árið (1817—18) voru tekjur fèlagsins rètt viðlíka og fyrsta árið, en þar var sú breytíng á orðin, að frá Íslandi komu nú tæplega 800 rbd., en gjafir og tillög í Danmörku og vextir af leigufè var nú orðið rúmlega 1200 rbd., þar á meðal var talin gjöf Friðriks konúngs hins sjötta, sem veitt hafði fèlaginu 200 rbd. árlegan styrk um tvö ár. — Í þriðju skýrslu (1818—19) getur þess, að tala fèlagsmanna á Íslandi fari fækkandi, en þó sendi deildin á Íslandi fyrir umhyggju forseta síns töluverðan fjárstyrk til sjóðs fèlagsins á hverju ári, einkum fram yfir 1820, en úr því kom smásaman nokkur breytíng á. Deildin á Íslandi hætti smásaman að eiga skipti við umboðsmenn fèlagsins í hinum fjarlægari hèruðum á Íslandi, og hèlt sèr einúngis til þeirra fèlagsmanna, sem voru í Reykjavík, Gullbríngu sýslu, Borgarfirði og þar í grend, en deildin í Kaupmannahöfn tók upp frá þessu að annast allar tillagaheimtur og önnur viðskipti við umboðsmenn fèlagsins fyrir vestan, norðan og austan. Þetta kom beinlínis af því ásigkomulagi sem var þá, að svo mátti heita sem styzta leið frá Reykjavík og til Norðurlands, eða til Vestfjarða, eða til Austfjarða, lægi yfir Kaupmannahöfn. Þá stóð svo á, að bækur fèlagsins urðu varla prentaðar annarstaðar en í Kaupmannahöfn, og hefði átt að senda allt það, sem til Íslands fór af þeim, til deildarinnar í Reykjavík, til þess að koma því til umboðsmanna, þá hefði það ekki lent í öðru, en að deildin í Reykjavík hefði líklega orðið að senda mikið af því til Kaupmannahafnar aptur, til þess að fá það sent þaðan til meðtökumannanna, og þetta hefði stundum getað valdið árslaungum drætti. Sú regla varð því að vana, sem eðlilegust var, að deild vor sendi til deildarinnar í Reykjavík svo mikið af hverri bók fèlagsins, er kom á prent, sem hin íslenzka deildin þurfti handa fèlagsmönnum í grend við sig og til þess að vera byrg til sölu þegar á þyrfti að halda, og til umboðsmanna að sama skapi, eptir því sem tækifæri fèll, en deildin í Reykjavík styrkti til á ymsar lundir,

og gjörði fèlaginu gagn með nytsömum uppástúngum, tilsjón sinni um efni fèlagsins og hag, og með notalegum og drjúgum fjárstyrk til þess bóklegu starfa.

Vèr skulum nú stuttlega líta yfir þessi bóklegu störf fèlagsins framanaf æfi þess. Vèr höfum sèð það á boðsbrèfum Rasks, að það sem honum þókti mest skarð vera í bókfræði hjá oss, það var, að engin landafræðisbók væri til. Það varð líka hin fyrsta ályktan deildarinnar í Kaupmannahöfn, að fela á hendur forseta sínum (Rask) að reyna að fá mann til að semja almenna Landafræði á Íslenzku (fundurinn 13. April 1816 í fylgiskjali Nr. 6). Þá var leitað á Gunnlaug Oddsson, stúdent í guðfræði, að semja bókina, og mun hann hafa hálfgert lofað því, en á fundi um veturinn eptir (6. Januar 1817) afsakaði hann sig að vera einn um að semja bók þessa, og voru þeir þá kosnir í nefnd með honum: Vigfús Thorarensen kansellisti, Jón Finsen, Jón Þorsteinsson og Ólafur Stephánsson Stephensen. Þó er ekki vottur til, að nefndarmenn þessir hafi tekið neinn verulegan þátt í að rita bókina, en Grímur Jónsson tók að sèr að rita fyrsta part hennar, og þegar hann fór frá Kaupmannahöfn (í August 1819) afsalaði hann sèr því verki með samþykki fèlagsins við Þórð Sveinbjarnarson, en allt hitt mun Gunnlaugur Oddsson hafa samið. Til að búa út hina steinprentuðu landsuppdrætti, sem bókinni fylgja, hafði fèlagið aðstoð Borns lautenants, sem var um hríð við landmælíngar á Íslandi. Þannig kom bók þessi á prent í fimm deildum á árunum 1821—1827, alls 92 arkir í 8 bl. broti, með sex landabrèfum. Kostnaður fèlagsins var töluverður fyrir prent og pappír, en verkið sjálft mátti telja það fengi fyrir ekki neitt, því það veitti aðalhöfundinum einúngis 100 dala þóknun að afloknu starfi hans, og var þá um sama leyti kosin nefnd til að semja registur við bókina (Páll Þorbergsson, Eggert Jónsson, Ögmundur Sigurðsson, Sigfús Skúlason og Þórður Jónasson). Þessi bók frá fèlaginu hefir áunnið sèr maklega hylli meðal alþýðu á Íslandi, og eg ætla víst, að hún sè hin fyllsta og bezta landafræðisbók sem hefir komið út á Norðurlöndum þángaðtil; fèlagið ætlaði því að fá samþykki stjórnarinnar til þess (15. Juni 1822), að hún yrði tekin fyrir kennslubók í skólanum, en ekki varð því framgengt að heldur, hvað sem til þess hefir komið, heldur lærðu skólapiltar landafræði sína eptir dönskum kennslubókum, einsog áður, þó lakari væri og miklu ófróðlegri.

Þóað landafræðin væri sú bók, sem fyrst var ákveðin til prentunar, þá

varð þó önnur fyrri til að koma út frá fèlaginu. Það var Sturlúnga saga og saga Árna biskups. Eg gat þess áður, að hinn nafnfrægi öðlíngur og styrktarmaður fèlagsins, einsog allra þeirra Íslendínga sem hann náði til, Byrgir Thorlacius prófessor, hafði lofað að gefa fèlaginu 100 rbd. í silfri árlega ef það veldi til prentunar Sturlúngu, eða eitthvert gamalt óprentað sögurit, og skyldi sú gjöf standa meðan prentanin stæði yfir. Fèlagsdeildin í Kaupmannahöfn valdi þá þegar um sumarið (22. Juli 1816) Sturlúnga sögu eður Íslendínga sögu hina miklu, sem svo er kölluð, og kaus nefnd manna til að standa fyrir útgáfunni; var forstöðumaður þeirrar nefndar Bjarni Þorsteinsson, er þá var varaforseti deildarinnar, og þeir með honum: Sveinbjörn Egilsson, Þórarinn Magnússon Öfjord, Gísli Brynjúlfsson og Sigurður Thorarensen, allir úr stúdenta flokki. Þess má geta, að nefndarmönnum var lofað fyrir starfa þeirra tveimur exemplörum af bókinni í þokkabót. Nefndarmenn leystu starfa sinn rösklega af hendi, svo að öll Sturlúnga og Árna biskups saga var alprentuð á fjórum árum, alls 130 arkir í fjögra blaða broti, og formaður nefndarinnar, Bjarni Þorsteinsson, sem þá var einnig forseti deildarinnar í Kaupmannahöfn, gat hrósað því happi, að fá þessu mikla verki lokið áður hann skilaði af sèr forsetadæminu og fór alfarinn til Íslands; en þeir Sveinbjörn og Gísli unnu annars mest með honum að útgáfunni, einkum hinn fyrnefndi.

Hið þriðja bókstarf, sem fèlagið hafði fyrir stafni á fyrstu árum sínum, var frèttaritið. Það var sett í lagafrumvarpi fèlagsins, að það skyldi árlega gefa út stutt frèttablöð, sem hefði inni að halda helztu nýjúngar viðvíkjandi landstjórn, merkisatburðum, búskap, kauphöndlan og bókaskript bæði innanlands og utan. Þetta hafði deildin í Kaupmannahöfn samþykkt þegar í upphafi, og ætlaði sèr að koma því í verk fyrst af öllu. Það var ályktað á fundi 9. September 1816, að fá slíkt frèttarit samið og prentað þá að haustinu til, og senda af því 300 exemplör til Íslands, skyldi það vera gefins handa fèlagsmönnum í það sinn, en með lágu verði handa öðrum; en þessu varð ekki framgengt um haustið, og kom fyrsta hepti ritsins út vorið eptir (1817) og kallað „íslenzk Sagnablöð"; fylgdi þar með nafnaskrá fèlagsmanna, skýrsla um fèlagsins athafnir og ársreikníngur þess. Það sýndi sig fljótt, að fèlagið hafði hitt rètt á Íslendínga með þessu riti, því Sagnablöðin urðu skjótlega geðþekk landsmönnum og varð að prenta tvisvar stöku deild af þeim. Í annari

deild þeirra er ágrip af sögu Íslands um árabilið frá 1804, þegar „Minnisverð tíðindi" landsuppfræðíngar fèlagsins hættu, og hafa þeir síra Árni og Bjarni Þorsteinsson samið það, en útlendu frèttirnar samdi Finnur Magnússon. Þegar tímarit þetta hafði staðið um tíu ár, var það ákveðið á fundi 3. April 1827, að breyta nafninu og brotinu, því handhægra þókti að hafa það í átta blaða broti heldur en í fjögra blaða broti, eins og Sagnablöðin voru. Með breytíngunni var nú ritinu gefið nýtt nafn, og kallað Skírnir, sem það hefir síðan heitið. Fyrsta ár Skírnis hefir samið Finnur Magnússon, eins og áður Sagnablöðin, en síðan tóku aðrir við, eptir tilmælum forseta deildarinnar, fyrst Þórður Jónasson, sem þá var að lesa lögfræði til prófs, hann samdi annað og þriðja ár; þarnæst Baldvin Einarsson, einnig stúdent í lögfræði, hann samdi fjórða ár; síðan Þórður Jónasson aptur. Með fyrsta ári Skírnis byrjaði fèlagið að láta fylgja frèttunum nöfn helztu bóka, sem prentaðar höfðu verið á frèttaárinu, einkum í Danmörku; hefir þessu verið síðan fram haldið, og stundum á fyrstu árunum voru dómar um bækurnar og skýrt nokkuð frá efni þeirra. Bókaskrá þessa samdi í fyrsta sinn þáverandi kandidat í guðfræði Þorgeir Guðmundsson, sem var um þetta mund fèhirðir vorrar deildar.

Sturlúnga er svo merkileg bók, og svo yfirgripsmikil í sögu landsins, að forstöðumenn fèlagsins fóru að hugsa til, þegar prentunin fór að komast lángt á leið, hvernig takast kynni að fá framhald þessa verks, eða annað merkilegt íslenzkt sagnarit um sögu landsins til prentunar. Það vildi þá svo heppilega til, að fèlagið fèkk að vita um sama mund, að Jón Espólín, sýslumaður í Skagafirði, hefði samið „Árbækur Íslands í sögu formi", og væri kominn lángt á leið með það verk. Fèlagið fèkk síðan upphafið sent frá höfundinum, og á fundi deildar vorrar 3. November 1820 var ákveðið að prenta fyrstu deildina um veturinn eptir; var þá kosin nefnd til að standa fyrir útgáfu bókarinnar, og voru þeir kosnir: forsetinn (Bjarni Þorsteinsson), Þórður Sveinbjarnarson kandidat í lögfræði og Þorgeir Guðmundsson, stúdent í guðfræði. Fyrsta deildin Árbókanna kom út um vorið 1821, og ritaði Bjarni Þorsteinsson formála fyrir áður en hann skildi við forsetadæmi í deild vorri til að takast á hendur yfirdómara embætti í landsyfirrèttinum á Islandi. Þar eptir hèlt Finnur Magnússon fram útgáfunni, og síðan Rask, svo að allt þetta sagnarit var fullprentað, í níu deildum, frá því 1821 og þartil 1830, alls 166 arkir í

fjögra blaða broti að frátöldu registri. Höfundurinn fèkk engin eiginleg ritlaun hjá fèlaginu, en 1826 gaf það honum „*Eddalære*" Finns Magnússonar, sem hann lángaði til að fá, svosem heiðursskenk; þar að auki fèkk hann Árbækurnar sjálfar innbundnar og 10 expl. að auki óinnbundin; þess er og vert að geta, að verk þetta hefir gjört höfund sinn frægan, og orðið honum til ágætra meðmæla síðar, þegar hann fèkk lausn frá embætti sínu og eptirlaun, og átti hann hvorttveggja þetta fèlaginu að nokkru leyti að þakka, því þá voru engin eptirlaun ákveðin handa sýslumönnum.

Á fyrstu árum fèlagsins var borin upp og samþykkt í deildinni í Reykjavík sú uppástúnga, að gefa út safn af íslenzkum kvæðum, helzt frá siðaskiptunum á sextándu öld og síðan. Þar var kosin nefnd í deildinni, til að velja kvæði þessi og búa þau undir prentun; voru þeir í nefndinni: forsetinn síra Árni Helgason, Bjarni Thorarensen og Hallgrímur Scheving. Vèr höfum enn í handritasafni voru nöfnin á kvæðum þessum, og voru þau 59 að tölu, en safnið sjálft hefi eg aldrei sèð, og mèr þykir líklegt það sè á flækíngi einhverstaðar, því aldrei hefi eg orðið var við það væri meðal handrita fèlagsins[1]. Eptir því sem ráða er af fundabók vorri, mun deildin á Íslandi hafa sent kvæðasafn þetta híngað um haustið 1821, og ætlazt til það yrði prentað; en Finni Magnússyni, forseta vorrar deildar, þótti það ekki allskostar búið til prentunar einsog það var þá, og bauð fèlaginu kvæði síra Stepháns Ólafssonar í Vallanesi til prentunar kauplaust, og var því vel tekið. Þó varð ekki af prentuninni þetta ár, en á fundi um veturinn eptir (13. Januar 1823) voru kvæði síra Stepháns tekin til prentunar, og tókust þeir Þorgeir Guðmundsson og Maurus Mattíasson á hendur að bera saman handritin, en Hannes Stephensen að lesa prófarkir. Kvæðin komu þá út um vorið, og ritaði Finnur Magnússon formála fyrir, en kverið er 8 arkir á stærð í 12 blaða broti. Svo var til ætlazt, að þetta væri fyrsta deild hins almenna íslenzka kvæðasafns, og má sjá af skýrslu fèlagsins, sem prentuð var á Dönsku um vorið 1822, að ætlað var til

[1]) það er til merkis um safn þetta, hvar sem það kynni að vera niður komið, að þrjú fyrstu kvæðin eru „Heims ádeilur" (önnur þeirra í röðinni eptir Jón biskup Arason; þriðja eptir Pál Vidalín); en næst seinasta kvæðinu er Skipafregn og seinasta kvæðið Tímaríma Jóns Sigurðssonar. það væri vel gjört af hverjum þeim, sem nú hefir safn þetta í höndum, að láta fèlaginu það eptir, svo það komist á sinn rètta stað.

að kvæðasafnið yrði alls í tveim bindum eða meira, áttu tvö hin fyrstu bindin að hafa kvæði frá sextándu og seytjándu öld, og einstöku frá fjórtándu og fimtándu.

Auk þessara bóka, sem nú voru taldar, gaf fèlagið út á þessu tímabili nokkrar aðrar, sem því buðust til prentunar kauplaust. Þorgeir Guðmundsson bauð fèlaginu (30. Marts 1822) safn af íslenzkum Orðskviðum, eptir föður sinn síra Guðmund Jónsson á Staðarstað, og kom fyrri hluti þess út á prent 1830 með formála Bjarna Þorsteinssonar amtmanns. — Á ársfundi 30. Marts 1827 var lögð fram æfisaga Jóns Eiríkssonar, sem Bjarni amtmaður Þorsteinsson hafði sent fèlaginu; var hún samin að hans fyrirsögn og með hans tilstyrk af Sveini lækni Pálssyni, en hann hafði sjálfur ritað formála fyrir. Sá bæklíngur kom út á prent 1828, með eirgrafinni andlitsmynd eptir Eckersberg ýngra og rithandar sýnishorni eptir Bagge koparstúnguritara, og er 12 arkir á stærð. Sú bók er snoturlegast úr garði gjör af öllum þeim bókum sem fèlagið hafði gefið út þángað til. — Oddur Hjaltalín læknir hafði sent fèlaginu íslenzka grasafræði; fèlagið kaus nefnd til að skoða hana (14. November 1830) og voru þeir kosnir: Finnur Magnússon, Baldvin Einarsson, Hallgrímur Bachmann og Eggert Jónsson; eptir að nefnd þessi hafði sagt álit sitt var bókin prentuð um haustið og veturinn eptir. — Rask sjálfur gaf fèlaginu íslenzkt stöfunarkver, sem hann kallaði „Lestrarkver handa heldri manna börnum", var prentað af því 1000, og sent til Íslands 1830 um vorið, og er 2 arkir að stærð.

Þessar eru nú hinar helztu bækur, sem fèlagið hefir gefið á prent á hinum fyrstu 15 árum af æfi þess. Það telst svo til, að það eru alls rúmar 30 arkir á ári, og má það heita mikið, með þeim efnum sem fyrir hendi voru, þar sem fèlagið varð að byrja frá stofni og átti þá ekkert til, en kostnaður við prentun bóka fjarskalega hár þegar fèlagið byrjaði störf sín. Eg færi það til dæmis, að þegar byrjað var að prenta Sturlúngu, þá var prentunarkostnaður til hverrar arkar 27 rbd. — En það sem gjörði, að fèlagið gat þó staðizt þenna kostnað, og safnað sèr sjóði þar á ofan, var það, að bæði heppnaðist því þegar í upphafi að fá öfluga styrktarmenn, svosem Byrgi Thorlacius, Adam Moltke og fleiri, hagsýna og sparsama forstöðumenn bæði hèr og á Íslandi, og þaraðauki starfsmenn, sem unnu fyrir ekki neitt það sem við þurfti, sömu-

leiðis umboðsmenn, sem tóku við bókum og tillögum og ráðstöfuðu því fyrir enga borgun; fèlagsmenn sjálfir greiddu allan sinn peníngastyrk til fèlagsins fyrir ekkert, því fèlagið gaf engar bækur fyrir tillögin, og þegar þeir vildu eiga bækurnar, urðu þeir að kaupa þær eins og hverir aðrir. Með þessu eina móti var það og fèlaginu mögulegt að leysa svo mikið verk af höndum; hefði það ekki verið, svo að fèlagið hefði sem menn kalla átt að borga hverjum sitt, þá hefði það afkastað varla helmíngs verki við það sem það gjörði. Reynslan hefir líka sýnt, að þegar til lengdar leikur þá verður það beinn hagur fyrir framkvæmdir hvers fèlags, sem á að vinna fyrir alþýðu, að láta þá sem tillög greiða fá sem mesta hlutdeild í því sem fèlagið afrekar, og svo að gjalda sanngjörn verkalaun fyrir það sem unnið er í fèlagsins þarfir. En eigi að síður, eða eg vil segja því heldur, megum vèr með þakklæti minnast þeirra manna, sem vörðu tíma og fyrirhöfn og kostnaði til þess að koma fèlagi þessu á stofn, og á góðan fót, svo það hefir síðan fengið efni til að haldast við og blómgast. Eg hefi áður nefnt þessa höfunda og forstöðumenn fèlagsins, en þó held eg enginn þeirra hafi varið meiri og stöðugri vinnu og ómaki til fèlagsins þarfa á þessu tímabili heldur en Finnur Magnússon. Hann var þegar frá upphafi skrifari í þessari vorri deild, og síðan forseti, alls um ellefu ár, sem voru hin fyrstu og að vonum hin örðugustu í æfi fèlagsins. Hann samdi frèttarit fèlagsins á hverju ári kauplaust, tók þátt í nefndum, annaðist brèfagjörðir deildarinnar, stóð fyrir bókaprentun og bókasendíngum og jók mikið vaxtasjóð fèlagsins. Hann hefir sjálfur sent fèlaginu skýrslu um forstöðu sína þegar hann fór frá um vorið 1827, og er hún prentuð í fyrsta árgángi Skírnis eptir ósk hans; þar má sjá, að fèlagið hefir um hans forstöðuár aukið vaxtasjóð sinn um rúma 300 dali árlega. Rask hèlt hinu sama fram, meðan hann var forseti, svo að þegar liðin voru hin fyrstu fimtán ár, og Rask skilaði forsetadæminu í vorri deild, þá átti fèlagið í vaxtasjóði 5000 dali, rúma 500 dali fyrirliggjandi í peníngum og töluverða eign í prentuðum bókum bæði hèr og á Íslandi. Það var gróði fèlagsins á þessum fyrstu fimtán árum.

Auk þess kostnaðar, sem fèlagið þurfti að hafa fyrir sjálft sig, styrkti það einnig stiptsbókasafnið á Íslandi töluvert við stofnun þess. Það var fyrst á ársfundi 30. Marts 1818, að þáverandi lautenant Karl Kristján Rafn stakk uppá hèr í vorri deild, að kjósa skyldi nefnd til að hugleiða, hvernig

hentugast væri að stofna bókasafn á Íslandi, og sendi skýrslu um bækur, sem ymsir höfðu lofað að gefa til slíks bókasafns. Deildin lèt höfundinum í ljósi þakklæti sitt fyrir þessa uppástúngu, og lofaði að rita um hana til deildarinnar á Íslandi. Um sama leyti eða nokkru síðar (26. Februar 1819) kom fram til fèlagsins uppástúnga frá Schlichtegroll, aðalritara við hið konúnglega vísinda-akademi í München, um að stofna bókasafn á Íslandi. Fèlagið auglýsti, að það vildi fúslega taka á móti bókum, sem góðfúsir styrktarmenn slíks bókasafns kynni vilja gefa. Þareptir söfnuðust og til fèlagsins töluverðar bókagjafir, og annaðist fèlagið geymslu á þeim og sendíngar, borgaði band á bókum fyrir stiptsbókasafnið, sömuleiðis prentun á bókaregistri þess, 11 örkum að stærð, og bókastimpil handa því (1827). Hèlt fèlagið þessu áfram þartil 1828, að styrkja stiptsbókasafnið og senda því bækur meðan það var að komast á fastan stofn, svo það á töluverðan þátt í stofnun þessa bókasafns í fyrstu. Þess má einnig geta, að fèlagið sendi á þessum árum bækur nokkrar til amtsbókasafnsins á Akureyri, og sömuleiðis styrkti það bókasöfn og lestrarfèlög bæði hèr í Danmörk og erlendis, með því að senda þeim bækur þær sem það hafði sjálft látið prenta. — Fèlagið galt þar að auki ymsan annan smákostnað, svosem til að prenta þakklætiskvæði til þeirra, sem höfðu sýnt Íslandi eða fèlaginu sóma, og ýmislegt fleira.

Um það leyti, sem Bókmentafèlagið var stofnsett, var Ísland og þess forna bókvísi orðið víða kunnugt að nafninu til. Margir menn urðu því til, bæði hèr og erlendis, að fagna stofnun þessa fèlags og óska því allra heilla. Á Þýzkalandi voru einkanlega ekki allfáir merkismenn, sem höfðu lagt stund á mál vort og fróðleik, og þessir menn væntu sèr mikils gagns fyrir þessi vísindi ef hið íslenzka Bókmentafèlag tæki til starfa. Einn af skáldum Þýzkalands, fríherra de la Motte-Fouqué, sendi 1820 fèlaginu kvæði, sem hann hafði ort til Íslands og var kveðið með mikilli riddaralegri kurteisi. Bjarni Thorarensen orti til svars uppá það kvæðið „Íslands riddari", og var það prentað í frèttariti fèlagsins[1]. Þareptir sneri de la Motte-Fouqué Gunnlaugs sögu ormstúngu, og eignaði hana fèlaginu; fyrir það orti Finnur Magnússon fèlagsins vegna kvæði til hans á Þýzku, „Thules Gruss", sem fèlagið lèt prenta

[1]) Sagnabl. VI, 75; Kvæði Bjarna Thorarensens bls. 17—23.

á sinn kostnað (1827). — Enskur vísindamaður, að nafni John Heath, hafði lesið ferðabók Hendersons á Íslandi; hann fèkk þar að heyra, að síra Jón Þorláksson hafði snúið á íslenzk ljóð kvæði Miltons, sem heitir *Paradise lost* (Paradísar missir), og að það verk væri ágætt í sinni röð. Hinn enski maður fèkk og að vita, að hið íslenzka Bókmentafèlag hefði umráð yfir hinu íslenzka frumriti, því forseti deildar vorrar á Íslandi, síra Árni, hafði fengið hjá höfundinum, síra Jóni, bæði þetta og önnur kvæði hans, og hafði án efa upphaflega hugsað sèr að verja þeim í fèlagsins þarfir. Heath falaði þá þetta handrit að fèlaginu, og var honum veitt leyfi til að prenta það einusinni (29. Mai 1828). Síðan var bókin búin hèr úr garði undir fèlagsins umsjón, og það bauðst einnig til að takast á hendur söluna á Íslandi; en útgefandinn gaf fèlaginu 300 exemplör af bókinni, með því skilyrði, að ekkert yrði selt dýrara á Íslandi en 1 rbd. (5. Marts 1829), en síðan keypti fèlagið af Rask 100 exemplör fyrir þetta sama verð, en söluverðið var annars frá níu til fimtán marka. Til þakklætismerkis kaus fèlagið Heath til heiðursfèlaga síns og sendi honum Sturlúngu og Árbækurnar í vönduðu bandi, en Finnur Magnússon orti til hans kvæði á Íslenzku og Ensku: „Minnisljóð um Jón Milton og Jón Þorláksson", sem prentað var á fèlagsins kostnað.

Þèr hafið sèð af því, sem eg hefi nú þegar skýrt yður frá, að fèlaginu hafa fljótt borizt í hendur bæði bækur og handrit nokkur. Þó var ekki mikið um handritin, nema þau sem til prentunar voru ætluð; eg þarf einúngis að geta tveggja. Annað þeirra var safn af íslenzkum kvæðum, eptir Jón Stephánsson faktor á Berufirði um og eptir 1800, og ritað allt með hans eigin hendi í tíu bindum í 8 blaða broti. Safn þetta átti Benedikt Bergsson frá Árnanesi, og keypti fèlagið það af honum fyrir 20 rbd. í seðlum (21. Januar 1822), en vèr mistum það í brunanum 1847, svo nú er einúngis eptir af því lítill örmull af lausum blöðum. Skaðinn að því tjóni er þó miklu minni en menn skyldu ætla, því svo vildi heppilega til, að eg hafði skrifað upp eptir því öll helztu kvæðin af hinum nýjari, og Sveinn Grundtvig öll fornkvæðin, svo að flestallt hið merkilegasta, sem var í safni þessu, er til enn. — Nokkrum árum síðar (30. Marts 1827) sendi Hallgrímur Jónsson, djákni á Þíngeyrum, fèlaginu að gjöf tvö aðalrit, sem hann hafði samið, voru það Annálar íslenzkir í þremur bindum, og Rithöfundatal íslenzkt eptir hann; en honum voru

send aptur til þakklætis viðurkenníngar allar fèlagsbækurnar á skrifpappír, og hann sjálfur kosinn til brèflegs fèlaga. Þessir Hallgrímsannálar eru enn til í handritasafni voru, og eru þeir heiðarlegt merki um bókiðnir höfundarins og fróðleik hans.

Það heyrir til þessari skýrslu um ymsan hagnað, sem fèlaginu veittist úr ymsum áttum, að skýra frá þeim fjármunum, sem deild vor erfði eptir hið fyrra konúnglega íslenzka lærdómslista fèlag. Þegar fèlag vort stofnaðist, hafði lærdómslista fèlagið ekkert rit gefið út í mörg ár. Fjórtánda bindi rita þess kom út 1796, og fimtánda bindi var lángt á leið komið, og átti án efa að koma út 1802 eða þarumbil, en mun aldrei hafa orðið fullprentað; að minnsta kosti þekki eg ekki meira en 286 blaðsíður framanaf því, og hættir þar í miðjum manntalstöflum, sem áttu að vera fyrir Skálholts stipti 1795 til 1800 og fyrir Hóla stipti 1795 og 1796. Þegar fèlag vort stofnaðist, höfðu þeir umsjón um eptirlátnar eigur hins gamla fèlags: Grímur Thorkelin leyndarskjalavörður, og Hans Jensen, „kommitteraður" í rentukammerinu, sem hafði verið fèhirðir seinast, meðan fèlagið var við lýði. Á fundi deildar vorrar 20. Juni 1817 var borið fram brèf frá lærdómslista fèlaginu, eða þeim forstöðumönnum þess, að það bauðst til að láta bókmentafèlagið fá eigur sínar, sem þá voru 26 rbd. 40 sk. í peníngum, konúnglegt skuldabrèf 200 rbd. og nokkuð í bókum eptir meðfylgjandi skrá. Deildin tók því tilboði vel af sinni hálfu, en þóktist þó ekki geta allsendis samþykkt, fyr en svar deildarinnar á Íslandi væri fengið. Árið eptir fèkk deild vor bókaleifar allar frá lærdómslista fèlaginu (28. April 1818), en það var ekki fyr en tíu árum seinna (29. Mai 1828), að Jensen skilaði sjóði fèlagsins, sem var þá alls 275 rbd. — Með bókaleifunum fylgdi samkomubók lærdómslista fèlagsins, og það sem til var af skjölum þess, en því miður höfum vèr mist mestan hluta af því í brunanum 1847, og þar á meðal samkomubókina, en vèr höldum eptir fáeinum skjölum, sem voru að hendíngu heima hjá mèr þegar brann; þar á meðal er frumritið af hinu fyrsta frumvarpi til stofnunar fèlagsins 1779 frá þeim Ólafi Ólafssyni og Þórarni Lilliendal[1]. — Þannig hafði þá fèlag vort erft einn af fyrirrennurum sínum, hið konúnglega íslenzka lærdómslista fèlag.

[1]) sbr. Æfisögu Jóns Eiríkssonar, bls. 148.

Það var ekki lángt frá, að fèlagið tæki eins að erfðum prentsmiðjuna á Íslandi, og allar bókaleifar hennar, einsog því yrði skilað af hendi hins konúnglega íslenzka landsuppfræðíngar fèlags. Eg hefi áður stuttlega drepið á, að Magnús Stephensen hafði stjórnað fèlagi þessu um mörg ár, og haft umsjón yfir prentsmiðjunni, sem fèlagið hafði eignazt, eptir að forstöðumenn þess höfðu leyst til sín prentsmiðjuna í Hrappsey og fengið þarmeð sameinaða Hólaprentsmiðjuna. Með konúngsbrèfi 18. April 1827 var stiptsyfirvöldunum á Íslandi skipað að rannsaka um ásigkomulag og stjórn landsuppfræðíngar fèlagsins, og gjöra uppástúngur um stjórn þess eptirleiðis, en einkanlega um stjórn prentsmiðjunnar, svo hún gæti orðið landinu að sem beztum notum. Stiptsyfirvöldin rituðu þá til deildarinnar á Íslandi 18. Februar 1828, og spurðu, hvort fèlagið mundi vilja taka að sèr prentsmiðjuna einsog hún var, og stjórna henni, og þá með hverjum skilmálum. Þá var stefnt til fundar 1. Marts, og stiptsyfirvöldunum svarað sama dag, að deildin væri að sínu leyti ekki ófús á að takast á hendur stjórn prentsmiðjunnar, með tilteknum skilmálum sem brèfinu fylgdu, svo framarlega sem fyrst stiptsyfirvöldin og síðan deild fèlagsins í Kaupmannahöfn vildi samþykkja skilmála þessa, og konúngur staðfesta. Þegar brèf um þetta kom til vorrar deildar, var stefnt til fundar (5. April 1828), og skilmálarnir lagðir fram fyrir fèlagsmenn og prentaðir síðan þeim til eptirsjónar; á öðrum fundi skömmu síðar (19. April) samþykkti deildin að sínu leyti tilboðið, og ritaði kansellíinu á þá leið (22. April), en síðan lá það mál í þagnargildi af hendi kansellíisins, og var enginn úrskurður veittur, þartil brèf fèlagsins var látið fylgja með öðrum skjölum í málinu heim til stiptsyfirvaldanna með brèfi kansellíisins 1. Oktober 1831[1], en þá var önnur ráðstöfun gjör, sem kunnugt er, því Magnús Stephensen hèlt umráðum prentsmiðjunnar meðan hann lifði, en stiptsyfirvöldin tóku við bókaleifum eptir reikníngi, og er það grundvöllur til þeirra eigna og vaxtasjóðs, sem prentsmiðjan í Reykjavík á.

Lög fèlagsins og stjórn þess voru reyndar frá upphafi í sama aðalformi einsog þau síðan urðu; en hvorttveggja varð þó þá fyrst fast bundið, þegar lögin voru að fullu og öllu samþykkt (1818). Þá var svo til hagað framanaf,

[1]) Lovsaml. for Island IX, 793.

að fèhirðir átti að taka við öllu upplagi nýprentaðra bóka, og standa fyrir allri útsölu og sendíngum bókanna og reikníngum við umboðsmenn fèlagsins og deildina á Íslandi. En það sýndi sig innan skamms, að þetta var ofmikið starf handa einum, og þessvegna var það ályktað á fundi 30. Marts 1819, að skilja bókavörzluna frá fèhirðis embættinu og kjósa bókavörð sèrílagi; var þá á sama fundi kosinn hinn fyrsti bókavörður, og varð Þórður Sveinbjarnarson fyrir því kjöri; en árið eptir var það ákveðið (31. Mai 1820), að reikníngar bókavarðar skyldi gánga til rannsóknarmanna með reikníngum fèhirðis. Bókavörður hèt fyrst „umboðsmaður", og svo er hann kallaður um hríð fyrst framaneptir, þar til 1828, í skýrslum fèlagsins; var hann þá ekki talinn með fèlagsins verulegu embættismönnum, og hèlt störfum sínum svo lengi sem hann ekki sagði þeim af sèr, en var ekki að jafnaði kosinn á ársfundum. Á ársfundi 30. Marts 1825 stakk Páll Árnason rektor uppá því, að fela embættismönnum deildarinnar eða sèrstakri nefnd á hendur að gagnskoða lög fèlagsins á ný, og stínga uppá þeim breytíngum sem þurfa þætti. Á næsta fundi (7. Decbr. 1825) var þeim þremur aðal-embættismönnum deildarinnar falið á hendur að semja uppástúngur til lagabóta, og jafnframt finna uppá ráðum til að auka bókasölu fèlagsins; skyldu þeir bera sig saman um þetta við Rask, sem þá var varaforseti í deild vorri. Nefndin bar upp frumvörp sín á næstu fundum (8. Febr. og 30. Marts 1826) og voru þær þá lögteknar, en síðan samþykktar í deildinni á Íslandi (11. Septbr. 1826) og hèr í annað sinn að endíngu (5. Januar 1827); þar að auki var enn ný lagagrein samþykkt á fundum deildanna 3. April og 2. Juli 1827. Allar þessar lagagreinir eru síðan prentaðar í Skírni 1828 (öðrum árgángi), bls. 54—57, og stóð síðan óbreytt lög og fyrirkomulag fèlagsins það sem eptir var af þessu tímabili og lángt fram á hið eptirkomanda.

2. Hið annað tímabil fèlagsins tel eg, einsog eg hefi áður sagt, frá því að Rask fór alveg frá forsetadæmi og úr stjórn fèlagsins, og þángaðtil uppdrættir landsins voru fullbúnir (1831 til 1850). Breytíng sú, sem varð á stjórn fèlagsins þegar Rask fór frá, var allsendis sprottin af öðrum rökum en þeim, sem snertu bókmentafèlagið eða þess málefni; hún stafaði beinlínis frá deilu nokkurri, sem um þær mundir var í hinu norræna fornfræðafèlagi, og hèr

er ekki þörf að skýra frá. Þar lenti seinast í deiluritum milli Rasks og Baldvins Einarssonar, sem þá var skrifari í vorri deild, en flestir meðal hinni ýngri Íslendínga hèldu með Baldvin, svo að enda ekki allfáir á báðar hendur gjörðu úr þessu einskonar keppnismál milli Íslendínga og Dana. Rask tók það sárt, að hafa mótstöðumenn sína meðal Íslendínga, og það því heldur, sem hann átti í vök að verjast meðal landa sinna, einkanlega útaf því, að hann vildi breyta til í danskri stafsetníng í ymsum atriðum, en sú tilbreytni var mörgum ógeðfeld. Hann var á þessum árum farinn að verða heilsutæpur, og menn þóktust verða þess varir, einkanlega eptir austurför hans, að geðstillíng hans og þolgæði var minna en áður, hefir honum því orðið hættara við, að gjöra meira úr mótstöðunni en hún í raun og veru var. Á fundi í vorri deild 15. Marts 1831 skýrði hann frá störfum fèlagsins og ástandi, og afsalaði sèr forsetadæmið. Fèlagsmenn vildu sýna, að traust þeirra til hans var hið sama og áður, og að það væri ósk þeirra, að annarleg mál væri bókmentafèlaginu óviðkomandi; völdu þeir hann því enn á ný til forseta, þó hann afsakaði sig, en þess var enginn kostur, að hann vildi þiggja kosníngu, og var þá kosinn til forseta síra Þorgeir Guðmundsson, sem þá var aðstoðarprestur við Hólms kirkjuna hèr í borginni og yfirkennari við piltaskóla sjóliðsins. Kosníng Rasks hefði heldur ekki orðið lánggæð, því hann andaðist rúmu ári síðar (14. November 1832), og skömmu þar á eptir dó Baldvin Einarsson (9. Februar 1833). Síra Þorgeir hafði verið lengi embættismaður í deildinni, áður en hann var kosinn til forseta; hann var um átta ár fyrst bókavörður deildarinnar og síðan fèhirðir, auk þess sem hann hafði tekið þátt í mörgum ritstörfum, svo hann var öllum málum kunnugur. Það sýndi sig og í öðru, að ekki var misráðið að velja hann, því með lempni sinni og lagkænsku heppnaðist honum að jafna þær snurður, sem ekki var trútt um að vildi örla á um þær mundir meðal deildanna, og komu jafnvel svo berlega fram, að deildin á Íslandi sendi vorri deild beina uppástúngu um, að breyta einni af aðalreglum fèlagsins og kjósa danskan mann til forseta (29. Februar 1832); en deild vor sneyddi sig hjá þeirri uppástúngu, og fèll hún þarmeð niður.

Hið fyrsta, sem lá fyrir að starfa í fèlaginu, var að fullgjöra þau verk, sem byrjað var á en ekki fullkomlega til lykta leidd þegar Rask fór frá. Það var að fullgjöra Grasafræði Odds Hjaltalíns og Orðskviðasafnið, og prenta

registur við Árbækur Espólíns; þetta var gjört á sama árinu og tveim hinum næstu á eptir. En um sama leyti fèkk ein uppástúnga deildarinnar á Íslandi fèlaginu öllu nóg að starfa um lángan tíma, og verð eg að skýra nokkuð ítarlega frá því fyrirtæki, af því það er aðalstarf fèlagsins á öllu þessu tímabili, og þar að auki svo stórt og merkilegt í sjálfu sèr, að það yfirgnæfir í raun og veru öll önnur fyrirtæki þess híngaðtil.

Stjórnin hafði fyrir heilum öldum síðan haft þann ásetníng, að láta búa til uppdrátt af Íslandi, og var það fyrst Magnús Arason frá Haga á Barðaströnd, mælíngafróður hermannaforíngi, sem var sendur til Íslands með konúngsbrèfi 10. Februar 1721 til að framkvæma þenna starfa. Hann vann að því meðan hann entist til (†1728), og eptir hann norskur mælíngamaður Tómas Knoph, þartil þetta verk var fullgjört frá mælíngamanna hendi, og komið saman í eitt, en síðan var það látið í skjalasafn herstjórnarinnar (konúngsbr. 12. Novbr. 1734) og hefir aldrei komizt á prent í sinni upphaflegu mynd. Rantzau stiptamtmaður (1750—1768) lèt búa til eptir því annan uppdrátt, tölu-vert minni, og prenta í Nürnberg á Þýzkalandi (1761), og við þenna uppdrátt styðjast aptur þeir, sem fylgja ferðabókum Eggerts og Bjarna, og síðan Ólafs Ólafssonar (Olavius). Franskir vísindamenn, svo sem Verdun de la Crenne, sýndu galla á uppdráttum þessum, einkum það, að landið væri nokkuð skakkt sett og norðar en það væri í raun og veru, en þó var ekki verulega úr þessu bætt. Magnús Arason hafði byrjað á að rannsaka gáng himintúngla og annað, sem menn hafa til að mæla og miða við leg sèrhvers staðar á hnettinum, bar hann það saman við aðrar eldri mælíngar, eptir Guðbrand biskup á Hólum og Þórð biskup í Skálholti. Nokkru síðar var Niels Horrebow að samskonar störfum á Bessastöðum, þau tvö ár, sem hann var á Íslandi (1749—1751); þá tóku þeir við Eggert og Bjarni, og lètu sèr annt um að rannsaka eins loptslag og veðráttufar, einsog sèrhvað annað, meðan þeir voru á ferð sinni. En eptir það varð hlè á þartil 1770, að Eyjólfur Jónsson (Johnsonius) stjörnumeistari var sendur með landnefndinni til Íslands, og fèkk það erindi, að hefja nákvæmar rannsóknir um allt þetta efni, og búa undir þríhyrníngamál til landsuppdráttar. Hann hefir líklega haldið fram störfum sínum til dauðadags (1775), en eptir hann var settur að nokkrum árum liðnum (1778) Rasmus Lievog, og hefir hann haldið fram hinum sömu rannsóknum. Þessir stjörnumeistarar höfðu

aðsetur sitt á Bessastöðum og í Lambhúsum, og voru settir undir umsjón stiptamtmanns, hèlzt það þartil 1805, að skólinn var fluttur til Bessastaða og Lektor fenginn bústaður í Lambhúsum, en ekkert er oss nú kunnugt um, hvað orðið sè af mælíngastörfum þeirra Eyjólfs Jónssonar og Lievogs, nema hvað ęg hefi eignazt af hendíngu brot af veðurbókum eptir Lievog, og lagt það í handritasafn deildar vorrar.

Þegar Jón Eiríksson hafði fengið yfirstjórn hinna íslenzku mála í hendur, lèt hann sèr annt um að fá fullgjörvan uppdrátt landsins. Sökum verzlunar og fiskiveiða lá þá mest á að fá mældar strendurnar, og var fenginn til þess starfa ágætur maður, Hans Eiríkur Minor; hann mældi í Faxaflóa vel og nákvæmlega (1776—1778), en hann varð ekki lánggæður, og drukknaði áður en hann gæti fullgjört verk sitt. Eptir hann tóku aðrir við, og komu á prent nokkrir strandauppdrættir og lýsíngar, um það leyti sem konúngsverzlanin var lögð niður, og verzlan landsins gefin frjáls við alla þegna konúngsveldisins. Þá lagðist aptur starf þetta niður um hríð, þartil byrjað var á nýja leik eptir skipun konúngs í úrskurði 28. Mai 1800. Þessar mælíngar stóðu yfir þángað til framundir 1820, og voru þá fullmældar strendurnar umhverfis landið. Það er kunnugt, að kostnaðurinn til mælíngar þessarar var að mestu leyti látinn lenda á hinum svokallaða kollektusjóði, sem var sèrstakleg eign Íslands og upphaflega gjafafè til nauðstaddra við Skaptár-eldinn 1783; en það var ekki síður merkilegt, að þegar búin var strandamælíngin, á kostnað kollektusjóðsins mestmegnis, þá voru uppdrættirnir gefnir hinu konúnglega sjókorta safni, án alls endurgjalds til kollektusjóðsins; þar á móti fèkk kollektusjóðurinn að gjalda eptirlaun handa þeim, sem höfðu verið að mælíngunum á Íslandi. Sjókorta safnið lèt nú prenta uppdrætti og lýsíngar allra strandanna, og er hvorttveggja í marga staði allgott, einkum það sem Hans Jacob Scheel átti hlut að, þó allt hafi þann mikla galla, að öll nöfn eru þar afbökuð og sum óþekkjanleg. En hitt var þó mest vert, að uppdrættir þessir gjöra enga grein á því, sem merkilegast er upp til sveita, eða þegar upp í landið dregur, hvort sem þar eru staðir markverðir að eðli sínu eða frægir í sögu landsins. Myndir fjallanna, sem eru mjög merkilegar þegar menn vilja vita fjallaskipan og landslag, og hversu vötnum deilir, eru eigi heldur á þessum uppdráttum, nè afstaða stöðuvatna, nè árfarvegir, og heldur ekki vegalengdir millum hèraða landsins. En

þó svona mikið vantaði til, þá voru engin líkindi til þess, að á því yrði bót ráðin fyrir framkvæmd stjórnarinnar.

Björn Gunnlaugsson, sem þá var kennari við Bessastaða skóla, bar þá uppástúngu fram fyrir stiptsyfirvöldin á Íslandi 12. August 1829, að þau vildi leggja til við stjórnina, að landmælíngar-tól yrði látin vera við skólann, svo þau væri til taks þegar á þyrfti að halda. Þó er það ekki að sjá, sem þessi uppástúnga hafi í fyrstu miðað til þess, að byrja mælíngar um allt land. Stiptamtmaðurinn Krieger mælti með uppástúngunni við rentukammerið, og var þá farið að líta eptir verkfærum þeim, sem höfðu verið notuð áður við landmælíngar, og gjöra við þau, en sú viðgjörð gekk svo seint, að ekkert af þeim varð sent til Íslands um vorið 1830; leið svo allt það ár, að ekkert varð að gjört. En um veturinn eptir nýjár 1831 var það ályktað á fundi deildarinnar í Reykjavík, að fèlagið skyldi verja nokkru af tekjum sínum á hverju ári til þess, að fá allt Ísland mælt innlendis og sett á uppdrætti, og tókst Björn Gunnlaugsson á hendur þann starfa, í þeirri von, að mælíngartólin mundu þá koma um vorið. Það var ákveðið, að mælíngar skyldi fyrst byrja á Gullbríngu og Kjósar sýslu með Reykjavík, og síðan skyldi Björn Gunnlaugsson ferðast á hverju sumri, eptir að skólanum væri upp sagt, og þartil á haustin, að skóli væri settur. Krieger stiptamtmaður ritaði þá enn á ný rentukammerinu (24. Februar 1831), og skýrði frá fyrirætlun þessari, mælti hann og með, að stjórnin styrkti öfluglega þetta fyrirtæki, að því leyti sem það væri ofvaxið fèlaginu, bæði með því, að ljá verkfæri til mælínganna, og svo allt það, sem með þyrfti af hinu, sem heyrði til hinna fyrri strandamælínga. Rentukammerið snerist þá sköruglega og vel undir, og sendi þegar um vorið með brèfi til stiptamtmannsins 7. Mai yms mælíngartól og uppdrætti, um leið og það lèt í ljósi, að því hefði verið sèrleg ánægja að frètta um þessa fèlagsins fyrirætlun. Deildin í Reykjavík skrifaði þá um vorið til vorri deild, og stakk uppá að veita af fèlagsins sjóði frá 60 til 100 ríkisdala til mælíngarkostnaðar þetta fyrsta ár; var því vel tekið og veittir þá í svipinn (14. April 1831) þeir tilteknu 60 ríkisdalir, en á fundi um haustið (29. September 1831) var tillag þetta bætt upp til 100 ríkisdala, og ákveðið um leið, að skjóta til deildarinnar á Íslandi að sækja um styrk til stjórnarinnar þessu mikla fyrirtæki til framkvæmdar, þareð menn sáu fram á, að efni fèlagsins mundu hvergi nærri

hrökkva til. Um veturinn eptir var hinn fyrsti uppdráttur fullbúinn frá hendi mælíngameistarans, og sendur fèlaginu með brèfi hans 2. Februar 1832. Þessi uppdráttur tók yfir alla Gullbríngu sýslu og Kjósar, og nokkurn hluta af Árnes sýslu, og var í brèfinu skýrt frá, hver aðferð var höfð við mælínguna. Deild vor ræddi þetta mál á fundi 1. Mai 1832, og var ákveðið: „að ráðfæra sig við þá menn, sem hafa vit á að dæma um, hvort nokkuð er athugavert við það, eða ábóta vant, hvort betra muni að prenta það á steintöflum eða á koparblaði, og hvað prentunin muni kosta". Nú spurðist forseti deildarinnar fyrir, og safnaði sèr skýrslum frá ymsum mönnum, voru það einkum þeir prófessor Schouw, nafnfrægur náttúrufræðíngur og landfræðíngur, og Ólafur Nikulás Olsen, sem þá var kapteinn við herforíngjaskólann. Eptir að skýrslur þessar voru fengnar, var það auðsætt fyrir fèlagið, að efni þess mundu ekki hrökkva til að koma í verk mælíngunni og láta prenta uppdrættina þar að auki, en það væri til engra nota, að eiga uppdrættina í handritum óprentaða. Fèlagsstjórnin í vorri deild tók þess vegna það ráð, að skýra rentukammerinu frá málavöxtum í brèfi 1. August 1832, og er þar sagt um hinn fyrsta uppdrátt, að „þeir menn, sem eru nákunnugir hvernig hagar öllu landslagi í hèraðinu, segi, að uppdrátturinn sè mjög greinilegur og nákvæmur, og hafi marga og mikla yfirburði yfir þá sem áður voru til". Eptir að rentukammerið hafði leitað atkvæða hjá ymsum mönnum, tók það mikinn og góðan þátt í að styrkja fèlagið, var það fyrst með því, að fá svo ágætan mann sem Olsen til að sjá um tilbúníng og útgáfu uppdráttanna, og Hans Jakob Scheel til að starfa að öllu hinu reikníngslega við þríhyrníngamálið; þar næst með því, að auka nokkru við ferðastyrk þann sem fèlagið hafði samið um, og loks með því, að fá veitt úr landssjóðnum fè til stúngu og prentunar á uppdrættinum. Hið danska vísindafèlag styrkti einnig rausnarlega þetta fyrirtæki, með því að veita 500 ríkisdali til fyrsta fjórðúngsins (1835). Nú ferðaðist Björn Gunnlaugsson á hverju sumri, og sendi síðan skýrslur sínar og uppdrætti til fèlagsins eða til Olsens, og er ekki þörf að skýra framar frá því hèr, heldur get eg vísað til Skírnis um það á hverju ári meðan mælíngin stóð yfir. Síra Þorgeir Guðmundsson fylgdi þessu fyrirtæki fram með mestu alúð, meðan hann var forseti, og sparaði enga fyrirhöfn til að styðja að því á allan hátt; megum vèr nú því heldur minnast þess með þakklátlegri viðurkenníngu, sem hann varð

bæði að hafa fyrir að útvega þann fjárstyrk sem þurfti, og sömuleiðis að mæta ymsum mótmælum, þareð sumum fannst, að slík fyrirtæki sem þetta hefði eiginlega heyrt stjórninni til eingaungu, en ekki fèlaginu, og að það stæði sjálfu sèr í ljósi með því, að það drægi efni sín frá því sem næst lægi, sem væri samníng og prentun góðra bóka, en verði þeim til þess sem lægi fjær, eða alls ekki væri fèlagsins meðfæri, svo sem væri landmælíngar og landsuppdrættir. Vèr getum nú játað því, að mikið kunni að vera tilhæft í mótmælum þessum í sjálfum sèr, en þegar vèr gáum að á hinn bóginn, að verk þetta hefði vissulega ekki verið gjört enn í dag, og ef til vill tæplega á þessari öld, og þegar vèr kunnum að meta þann sóma, sem bæði þeir, er að þessu verki störfuðu, og svo fèlagið hefir haft af því, þá megum vèr gleðjast yfir, að fèlagið og þess forstöðumenn ekki fóru í neinn matníng, heldur fylgdu sèr að og lögðu allt sitt fram til að koma því til leiðar sem gjöra þurfti. Þegar síra Þorgeir skildi við forsetadæmið í vorri deild (27. Marts 1839) var tilbúníngur uppdráttanna kominn á fasta stefnu, en Finnur Magnússon, sem þá tók við forsetadæminu, hèlt samt fram með allri alúð að leiða allt þetta mikla fyrirtæki til lykta, enda var það og svo lángt komið þegar hann fèll frá, að ekki vantaði annað en boðsbrèf fèlagsins, sem kom út um vorið eptir.

Það var ætlun fèlagsins í fyrstu, að láta prenta uppdrátt af hverri sýslu á Íslandi sèrílagi; en það sýndi sig jafnskjótt og farið var að rannsaka málið betur, að þetta mundi hafa kostað svo mikið, að það hefði verið fèlaginu allsendis ofvaxið, og ekki að vænta svo mikils styrks, að því hefði orðið komið fram. Þessvegna var það ráð tekið, að skipta landinu í fjóra parta, sem mætti setja saman í heild, hver sem vildi svo, var tekinn mælikvarði í $^{1}/_{480000}$ hluta stærðar og fyrsta sýnishorn lagt fram á fundi 30. Marts 1836 og líkaði öllum vel. Fyrsti fjórðúngur landsins var alveg búinn til prentunar 1840, en á fundi 19. April 1845 var skýrt frá, að allir uppdrættirnir væri svo lángt komnir, að þeir mundu verða búnir að tveim árum liðnum. Um haustið 1846 komu híngað seinustu uppdrættirnir frá Birni Gunnlaugssyni, og leið ekki á laungu síðan þar til seinasti fjórðúngurinn var prentaður og allur landsuppdrátturinn þar með fullgjör, einsog fèlagið boðaði í boðsbrèfi sínu 15. Mai 1848, sem prentað er í Skírni það hið sama ár.

Olsen hafði búizt við því, þegar hann hafði hinn stóra landsuppdráttinn í smíðum, að menn mundu taka sèr fyrir að búa til eptir honum annan minni, og selja hann í bága við fèlagið. Til þess að koma í veg fyrir þetta, tók hann sèr sjálfur fyrir hendur að búa til uppdrátt á einu blaði með mælikvarða $^1/_{960000}$ stærðar, og láta hann koma út um sama leyti og uppdrátt fèlagsins. Til þessa fèkk hann styrk af stjórninni, en hann entist ekki til að fá þetta verk fullgjört, því hann andaðist þegar það var komið lángt á leið og áður það væri fullbúið. Brynjólfur Pètursson, sem var forseti í deild vorri eptir Finn Magnússon, sá skjótt þann hag, sem fèlaginu gat orðið að því að leysa til sín þenna minni uppdráttinn, og stakk uppá við deildina hèr að semja um kaup á honum við ekkju Olsens; var það samþykkt, með því skilyrði, að kostnaður til þess yrði ekki meiri en 500 ríkisdala. Brynjólfur kom samníngnum svo heppilega fyrir, að eirspjaldið varð ekki einusinni svo dýrt fèlaginu; það galt ekkjunni 700 ríkisdali, og 425 ríkisdali fyrir að fullgjöra uppdráttinn á spjaldinu, en þar á móti fèkk það 1000 ríkisdali, sem eptir stóðu af þeim styrk sem stjórnin hafði veitt til uppdráttarins, svo að fèlagið fèkk eiginlega eirspjaldið fullgjört fyrir 125 ríkisdali, og þurfti ekki að gjalda annað af sínum sjóði, nema prentkostnaðinn.

Fèlagið hóf á þessu tímabili annað stórkostlegt fyrirtæki, náskylt landsuppdrættinum. Á fundi vorrar deildar 25. August 1838 stakk Jónas Hallgrímsson uppá, að „kjósa nefnd manna og fela henni á hendur að safna öllum fáanlegum skýrslum, fornum og nýjum, er lýsi Íslandi eður einstökum hèruðum þess, og undirbúa svo til prentunar nýja og nákvæma lýsíngu á Íslandi, er síðan verði prentuð útaf fyrir sig á fèlagsins kostnað". Hèr var þegar kosin fimm manna nefnd, til að rannsaka og segja álit sitt um uppástúngu þessa, og bar hún það upp við fèlagið á fundi mánuði síðar (24. Septembr. 1838), mælti hún fram með uppástúngunni, og var það ákveðið að kjósa fimm menn í nefnd, til að safna til landslýsíngar. Nefndarmönnum kom það ásamt, að haganlegast og bezt væri að byrja á því, að safna lýsíngum sókna og sýslna sèrílagi, svo mörgum sem fá mætti, og væri til þess bezt fallið að senda brèf til allra presta og allra sýslumanna, og treysta á góðvild þeirra, að þeir sendi fèlaginu lýsíngar, hver yfir sína sókn eða sýslu. Nefndin gjörði ráð fyrir, að með þessu móti mundi safnast hið bezta og hentugasta

efni sem fáanlegt væri, og hin bezta og áreiðanlegasta undirstaða til hèraðalýsíngar á Íslandi, sem fèlagið gæti þá að minnsta kosti geymt, ef ekki heppnaðist að koma lýsíngunni á prent svo fljótt, og yrði þetta þá með tímanum ágætlegt safn, eptir því betra sem fleira fengist. Eptir þessu undirlagi lèt deild vor prenta brèf frá nefndinni 30. April 1839: annað til allra sóknapresta á Íslandi[1], og er þar stuttlega skýrt frá efni og niðurskipun, sem til var ætlað í bókinni, þar með voru einnig látnar fylgja brèfinu nokkrar spurníngar, til þess að skýra þarmeð greinilegar frá þeim atriðum, sem menn vildu helzt óska að lýst yrði í sóknaskýrslum prestanna. — Annað brèf frá nefndinni sendi fèlagið til allra sýslumanna[2]; því fylgdi einnig sú bón, að þeir sendi fèlaginu sýslulýsíngar, hver yfir sína sýslu, og voru spurníngar nokkrar sendar með, þeim til bendíngar og leiðbeiníngar um þau atriði, sem helzt þókti æskilegt að lýsíngarnar skýrði frá. Þá var og sýslumönnum sent um leið brèfið og spurníngarnar til prestanna, svo þeim yrði því ljósara hversu haga skyldi lýsíngunum. Bæði sýslumenn og prestar urðu ágætlega vel við áskorun fèlagsins, og söfnuðust á stuttum tíma lýsíngar frá meira hluta af hvorutveggjum, sem sjá má af auglýsíngum fèlagsins í skýrslum þess og reikníngum, einkanlega á árunum 1840 og þar á eptir. Eigi að síður vantar oss þó enn stöku lýsíngar, svo sem skrá um lýsíngasafn vort, einsog það er nú, ber með sèr[3]; það er og sem vænta má, að ekki eru allar lýsíngarnar jafnar, heldur er þar sem menn kalla misjafn sauður í mörgu fè; en eg hefi von um, að vèr bæði getum fengið smásaman þær sem vantar, og uppbót til hinna, sem ófullkomnar eru, eða þá aðrar betri. Um það höfum vèr áskoranir á hverju ári, og munum halda því fram, til að reyna hvað oss getur tekizt með tímanum, og með góðfusum tilstyrk presta og sýslumanna.

Enn var eitt fyrirtæki fèlagsins, sem miðaði einnig á sinn hátt til að undirbúa lýsíngu Íslands, og það var að fá safnað veðurbókum frá ymsum stöðum um allt land. Jónas Hallgrímsson bar það upp við deildina á Íslandi, og var það ályktað á fundi hennar 6. Oktobr. 1840 að koma þessu í verk, einkanlega með tilstyrk prestanna á tilteknum stöðum. Deildin á Íslandi sendi því

[1]) sjá fylgiskjal 9.
[2]) sjá fylgiskjal 10.
[3]) sjá fylgiskjal 11.

prentað boðsbrèf til þessara presta og ymsra annara 20. Marts 1841[1], ásamt með sýnishorni af veðurbók svo lagaðri, sem fèlagið óskaði sèr. Þareð nauðsynlegt var að hafa verkfæri í höndum, til þess að gjöra veðurbækurnar áreiðanlegri, þá þurfti að sjá þeim fyrir slíkum verkfærum, sem vildu halda veðurbækurnar. Af því að hið danska vísindafèlag lætur halda veðurbækur hèr og hvar í Danmörk, og hefir fasta nefnd til að sjá um það, var þessu fèlagi skýrt frá fyrirætlun bókmentafèlagsins, og tók það því máli svo vel, að það sendi fèlagi voru 45 hitamælira, ætlaða til Íslands, handa þeim sem vildi taka að sèr að semja veðurbækur, og lèt nú deildin á Íslandi gánga út ítarlegri fyrirsögn um, hvernig veðurbækurnar skyldi vera lagaðar; þessi fyrirsögn er í prentuðu boðsbrèfi deildarinnar 20. August 1841[2]. Síðan hafa safnazt til bókmentafèlagsins margar veðurbækur frá ymsum stöðum, auk þess sem fèlagið hefir fengið til handritasafns síns, og er það auglýst á ári hverju í skýrslum og reikníngum fèlagsins, hverir senda því veðurbækur; en það er ákveðið, að þeir sem senda skuli fá Skírni ókeypis. Safn veðurbókanna er nú orðið töluvert, og er sumt af því hjá vísindafèlaginu, sem hefir lagt til hitamælira, en sumt er í handritasafni voru, svosem skýrsla vor sýnir[3].

Til þess að semja lýsíng Íslands var Jónas Hallgrímsson að kalla mátti sjálfkjörinn, því bæði var hann frumkvöðull að því verki, stundaði náttúrufræði, ferðaðist um allt land að heita mátti, og lagði þarmeð alla þá stund á, sem hann gat, að þessu fyrirtæki gæti orðið framgengt. Árin sem hann var á Íslandi safnaði hann því sem honum var mögulegt, einkanlega til lýsíngar á eðlisfræði landsins. Það var því ályktað á fundi 23. April 1842, að bjóða honum 200 ríkisdala ársstyrk úr fèlagsins sjóði, til þess að koma híngað þá um haustið frá Íslandi og byrja að semja bókina. Þenna styrk hafði hann síðan frá fèlaginu árlega meðan hann lifði, og eptir andlát hans (26. Mai 1845) tók fèlagið við því safni, sem til var eptir hann[4].

Um útgáfur annara bóka frá fèlaginu varð lítt ágengt um nokkra hríð,

---

[1]) sjá fylgiskjal 12.
[2]) sjá fylgiskjal 13.
[3]) sjá fylgiskjal 14.
[4]) skýrsla um eptirlátin handrit Jónasar til Íslands lýsíngar m. fl. í Skírni 1846 (skýrslur og reikn. 1845), bls. VIII—IX.

eptir að fèlagið hafði tekið fyrir sig að búa undir landsuppdráttinn. Fyrst var það, að árstekjur fèlagsins voru um það mund heldur litlar, tæplega 700 ríkisdalir alls í vorri deild, því þá var nærþví allur fèlagsmanna styrkur frá Íslandi horfinn, og bókasalan ekki mikil, svo að þegar kostnaður nokkur gekk til mælínganna og til Skírnis, og fèlagsstjórnin varð þarhjá að auka vaxtasjóðinn á hverju ári eptir skipun laganna, þá varð ekki mikið afgángs til útgáfu bóka. Fèlagið lèt að sönnu engar bækur fyrir tillögin, og galt ekki ritlaun, en sá sparnaður í kostnaði var ef til vill fremur orsök til að styrktarmenn fækkuðu, og að tregt veitti að fá menn til að semja nokkurt rit fyrir fèlagið, svo að forseti varð að fá mann til að gjöra það fyrir ræktar sakir. Þórður Jónasson samdi Skírni kauplaust um allmörg ár, en þegar hann hætti lá við sjálft að enginn fengist til þess. Deildin í Reykjavík hafði kosið til prentunar Messiaskvæði Klopstokks, sem síra Jón Þorláksson hafði íslenzkað, og var það samþykkt (14. April 1831), en það var fyrst um haustið 1833, að fèlagið gat farið að láta byrja á prentuninni, og um vorið 1836 var bókin fullbúin í tveimur deildum. En þá um sama mund lifnaði mikill áhugi manna í vorri deild, til að efla framkvæmdir fèlagsins. Var stúngið fyrst uppá því, að veita ritlaun fyrir Skírni, og varð það að reglu frá því 1837, en að fastri ályktun 1840 (25. Januar). Önnur uppástúnga var sú, frá Skapta Stephánssyni (30. Marts 1836), að kjósa skyldi nefnd manna til að íhuga, hverjar bækur væri Íslandi nytsamastar, og skyldi svo fèlagið reyna að fá þær samdar. Til að rannsaka þessa uppástúngu, og segja um hana álit sitt, voru þeir kosnir: Jónas Hallgrímsson, Kristján Kristjánsson, Finnur Magnússon, Konráð Gíslason og Magnús Eiríksson, og tók nefnd þessi fram ýmisleg rit í álitsskjali sínu. Þriðja uppástúngan var frá mèr (31. Marts 1837) og fór fram á það, að fèlagið skyldi gefa út smárita safn árlega um ýmisleg fróðleg efni bæði utanlands og innan; en af þeirri uppástúngu leiddi, að fèlagið ákvað að gjalda laun fyrir ritgjörðir, og komu þá smásaman fram ritlíngar þeir, sem prentaðir voru á næstu árunum þar eptir, svosem var: Franklíns æfi og Oberlins, eða: þarfur maður í sveit (1839), Lækníngakver Jóns Hjaltalíns (1840), æfisaga Thorvaldsens (1841), Lýsíng landsins helga (1842), Ritgjörð um túna og engja rækt (1844). Um sama leyti var og einni deild bætt við Árbækur Espólíns (1843). Þar eptir tók deild vor fyrir sig að gefa út Frumparta íslenzkrar túngu í fornöld, eptir Konráð Gíslason (1846);

árið þareptir gaf deildin út kvæðabækurnar báðar, eptir Jónas Hallgrímsson og Bjarna Thorarensen (1847), en deildin á Íslandi gaf þá um sama leyti út Fornyrði Páls Vídalíns (þrjár deildir 1846—1849) og var það hin fyrsta bók, sem hún lèt prenta sjálf heima hjá sèr. — Fèlagsmönnum voru veittar þær ívilnanir (26. Febr. 1845), að þeir sem gyldi fèlaginu 3 dala tillag á ári skyldi fá allar þær bækur sem það lèti prenta, en hinir Skírni einúngis, sem gæfi 1 ríkisdal, þó svo framarlega, að þeir væri ekki í skuldum um tillög sín að undanförnu.

Auk þessa fór nú fèlagið smásaman að leita ymsra ráða til að vekja áhuga manna, einkum á Íslandi, á þeim mikilvæga starfa til sóma og gagns fyrir land vort og þjóð, sem bókmentafèlagið hefir á hendi, og reyna til að hvetja þá að styrkja fèlagið betur en þeir höfðu nú gjört um hríð, og þarmeð jafnframt efla sitt eigið andlega gagn. Í þessu skyni gaf deild vor út á prent skýrslu um athafnir fèlagsins og ástand (1841), og var skýrsla þessi send um kríng til gefins útbýtíngar. — Ymsar tilraunir voru einnig gjörvar, til þess að fá stofnuð styrktarfèlög í ymsum hèruðum, þareð slík fèlög með laglegri forstöðu gæti orðið til hinna mestu nota á margan hátt, til að efla samheldi og bóklega mentun í hèruðunum og jafnframt afl bókmentafèlagsins; en ekki heppnaðist neinum að koma því á, nema hinum núveranda forseta deildarinnar í Reykjavík, sem þá var prófastur á Staðastað; hann kom því á um tíma, og eyddist það svo aptur þegar hann fór burt. Þessar tilraunir frá fèlaginu báru eigi að síður nokkurn ávöxt, því þar sem fèlagsmenn á Íslandi voru ekki fleiri en 30 þegar fæst var, 1826 og næstu árin þar á eptir, framundir 1840, þá voru nú orðnir 120 fèlagsmenn á Íslandi 1846. Til þess að gjöra mönnum hægra fyrir að eignast rit fèlagsins, var verð þeirra lækkað töluvert, einkum handa kaupendum á Íslandi, og stundum voru þau gefin til bókasafna, svosem til bókasafns Vesturamtsins í Stykkishólmi, og til hins skandinaviska bókasafns hèr í Kaupmannahöfn.

Það lá nærri um eitt skipti enn á þessu tímabili, að prentsmiðjan, sem þá var í Viðey, kæmist undir stjórn bókmentafèlagsins. Í brèfi 17. August 1842 spurðu stiptsyfirvöldin deildina á Íslandi, hvað henni litist ráðlegast um prentsmiðjuna og stjórn hennar, og í brèfi 5. Septembr. 1843 buðu stiptsyfirvöldin deildinni prentsmiðjuna til umráða; en þetta mál komst ekki lengra, því á fundi 21. Septembr. 1843 varð meiri hluti atkvæða á því, að neita þessu tilboði.

Þess var fyrri getið, að fèlagið hafði áður eignazt nokkur handrit að kaupi og gjöfum; það hèlt því enn fram á þessu tímabili að safna sèr því sem barst í hendur, og urðu ymsir til að gefa því einstöku handrit, sem enn er til í safni voru; þó var það mest vert sem keypt var, svo sem var afskript af seinustu deildum af Árbókum Jóns Espólíns, af ættatölusafni hans í átta bindum, og kvæðum hans frumkveðnum, sem fèlagið fèkk hjá syni höfundarins, síra Hákoni Espólín. Jónas Hallgrímsson hafði keypt á Íslandi ferðabók Sveins Pálssonar í þremur bindum, og eptirlèt hana fèlaginu fyrir sama verð. Dagbækur og veðurbækur, og ýmislegt annað, sem Sveinn Pálsson hafði eptir látið af handritum, keypti fèlagið af Páli syni hans.

Eg vil ekki undan fella að geta þess, að fèlag vort fèkk á þessu tímabili tækifæri til að sýna nokkurn vott endurminníngar sinnar og þakklætis við höfund sinn og frumkvöðul, prófessor Rask, þegar nokkrir af vinum hans og lærisveinum tóku sig saman um (1839) að reisa honum minnisvarða; fèlagið lagði til þeirra samskota 50 ríkisdali, og það var oss ánægja Íslendíngum, að vèr áttum að tiltölu mikinn þátt í því að sæma á þenna hátt hans minníngu.

Það eru einsog vèr vitum almenn forlög, að mæta einhverju mótlæti á æfi sinni, og svo hefir það gengið einnig fyrir fèlagi voru. Eg tel þartil helzt eldsbrunann, sem varð hèr um nóttina milli 24. og 25. September 1847, þegar brann fyrir vorri deild geymsluhús það, sem vèr höfðum í bækur fèlagsins og handrit, brèfabækur deildar vorrar, dagbækur og skjöl. Mest af þessu tapaðist, og var það mikill skaði fyrir fèlagið, en þó ekki sízt fjárskaði, því vèr mistum þar bótalaust forlagsbækur fèlagsins fyrir 2600 ríkisdali eptir söluverði bókanna[1]. Vissulega var nú ekki skaðinn svo mikill í sjálfu sèr, því ekki gat maður gjört ráð fyrir, að fèlaginu hefði orðið svo mikið úr því sem til var, þegar til sölunnar hefði komið, en hann var þó töluverður, og ekki sízt vegna þess, að hinar eldri bækur fèlagsins, sem þar brunnu, eru nú því útgengilegri sem lengra líður frá, og hefði verið mikils virði ef þær hefði nú verið til. En þó nú þetta óhapp henti, þá getum vèr sagt, að fèlagið hafði álitlega þroskazt á þessu sínu öðru tímabili. Það hafði nú aflokið miklu verki,

[1]) Skýrsla um brunann er prentuð í Skírni 1848 (Skýrslur og reikníngar 1847, bls. 8—13); þar er talið upp bæði það sem brann og það sem frelsaðist, af handritum, skjölum og prentuðum bókum.

sem var tilbúníngur og prentun tveggja uppdrátta Íslands, er máttu heita hver öðrum prýðilegri; það hafði gefið út allmargar góðar bækur, og lagt grundvöll til safns af skýrslum og handritum, og enn fremur aukið vaxtasjóð sinn um 3700 ríkisdala, sem svarar allt að 200 rd. á ári, svo að hann var nú orðinn 8700 ríkisdalir.

3. Um hið þriðja tímabilið, frá 1850 og til þess nú, er flestum yðar svo kunnugt, að eg get verið um það fáorðastur. Fèlagið hefir á þessu tímabili gefið sig mest við að prenta bækur, einkum þær, sem miða til að útbreiða þekkíngu um ástand lands vors og stjórn, og svo sögu þess og bókmenta vorra bæði að fornu og nýju. Menn höfðu lengi fundið, að það voru einkum tvær greinir í lögum fèlagsins, sem voru framkvæmdum þess til fyrirstöðu: önnur sú, að því var bannað að gefa út nokkurt ritsafn sem framhaldið væri árlega, nema frèttaritið; en önnur sú, að það var skyldað til að leggja hèrumbil fimtúng af árstekjunum til vaxtasjóðs síns. Hvortveggja þessi regla var í alla staði góð og nauðsynleg fyrst, á meðan fèlagið var að komast á fastan fót, og einkanlega meðan það hvorki galt ritlaun nè veitti fèlagsmönnum bækur fyrir tillögin; en eptir því sem fèlagið komst betur til efna, eptir því varð það ljósara fyrir mönnum, að hin reglan mundi verða gagnsamari til framkvæmda, að gefa frjálsar hendur í þessu hvorutveggja, en banna einúngis að skerða vaxtasjóð fèlagsins. Þessi breytíng var samt lengi að komast í kríng, því uppástúngur um það komu fyrst fram í vorri deild 1838, en á fundi 22. December 1842 var kosin þriggja manna nefnd í vorri deild, eptir uppástúngu forseta (Finns Magnússonar), „til að safna og raða niður lagagreinum fèlagsins, og stínga uppá breytíngum ef þurfa þætti"; í þessari nefnd var eg með Jónasi Hallgrímssyni og Brynjólfi Pèturssyni, og vorum við allir samdóma um að breyta lögunum í þessum atriðum, en deildirnar komu sèr ekki að öllu leyti saman um lagafrumvarpið fyr en nokkrum árum síðar, svo að það var fyrst endilega samþykkt á fundi deildarinnar í Reykjavík 25. Februar 1850. Þegar það kom híngað þá um vorið varð það ekki tekið til umræðu, af því að forseti vorrar deildar Brynjólfur Pètursson var þá orðinn veikur af þeim sjúkdómi, sem síðan dró hann til dauða (27. Oktober 1851), og var það fyrst á ársfundi árið eptir (31. Mai 1851), að ályktað var að frumvarpið skyldi

gánga um kríng meðal fèlagsmanna áður en það yrði rædt á fundi. Eg var þá ekki viðstaddur, þegar fèlagsdeild vor gjörði mèr þann sóma að kjósa mig til forseta, en um haustið á fundi (20. Septembr. 1851) var lagafrumvarpið endilega samþykkt og prentað um veturinn eptir. Síðan hafa engar breytíngar orðið á lögum vorum.

Á þessum sama fundi, sem lögin voru samþykkt, kom fram uppástúnga frá Gísla Brynjúlfssyni, að fèlagið skyldi gefa út árlega tímarit, er ætlað væri fyrir ritgjörðir og skjöl, íslenzkum bókmentum og sögu landsins viðkomandi. Þessari uppástúngu var vel tekið, og ályktað að taka á móti ritgjörðum, sem byðist í safn þetta; einnig var kosin þriggja manna nefnd til að dæma um þær. Fyrsta hepti af þessu ritsafni, sem vèr höfum kallað „Safn til sögu Íslands og íslenzkra bókmenta að fornu og nýju" kom út 1853, og er komið út af því alls eitt bindi heilt og tvö hepti af öðru, en vèr höfum þar að auki fyrirliggjandi ritgjörðir til framhaldsins. Auk þessa ritsafns gaf fèlagið út Eðlisfræði, sem deildin á Íslandi hafði kosið til prentunar, og Hómers Odysseifskvæði, sem deildin á Íslandi hafði einnig umgengizt við Sveinbjörn Egilsson að snúa á Íslenzku; vèr höfðum þá og fengið tvær seinustu deildirnar af Árbókum Jóns Espólíns, og gátum nú þar með endað þetta merkilega sagnarit.

Eptir að fèlagið hafði fengið frjálsari hendur með breytíngu laganna, var sú stefna tekin, að fèlagið skyldi kappkosta að gefa út svo miklar bækur á ári hverju, að fèlagsmenn þeir, sem gyldi þrjá dali í tillag, fengi það endurgoldið í verði bókanna, eða þó stundum meira, eptir því sem fèlagið gæti komið sèr við Þessu gátum vèr byrjað á þegar 1853, og síðan hefir fèlagið aldrei gefið út minna á ári, en sem svaraði rúmlega þriggja dala virði í bókum, en stundum nær því tvöfalt, eða meira en tvöfalt. Þegar svo var komið sendum vèr boðsbrèf til Íslands (1854), til að sýna mönnum og leitast við að sannfæra þá um, hvern hagnað þeir gæti sjálfir haft, og hvert gagn þeir gæti unnið landi voru og bókmentum þess, með því að gánga í fèlag vort og styrkja það. Jafnframt því sendum vèr einnig skýrslur og reiknínga fèlagsins á hverju ári til allra presta, sýslumanna, alþíngismanna og margra annara, er vèr hugðum að mundu vilja styrkja vort mál. Þetta hafði hinn bezta árángur,

því í stað þess að 4 höfðu gengið í fèlagið 1851, árið eptir 14, og árið 1853 sömuleiðis 14, þá gengu í fèlagið einúngis í vorri deild:

| | | |
|---|---|---|
| 1854 | alls | 61 |
| 1855 | — | 121 |
| 1856 | — | 135 |
| 1857 | — | 105 |
| 1858 | — | 46 |
| 1859 | — | 78 |

svo að tala fèlagsmanna var orðin 780 um vorið 1859, af þeim sem tillög áttu að gjalda, í stað þess sem ekki voru nema 200 um vorið 1851. Síðan hefir tala fèlagsmanna farið heldur fækkandi, þó ekki sè að miklum mun, og hefir fèlagið þó á þessum árum látið fèlagsmönnum meiri bækur í tè en árin á undan.

Þegar styrkur fèlagsmanna gekk svo liðugt oss í hönd, þá var það hvöt fyrir oss til að koma fram ymsu því, sem efni fèlagsins höfðu ekki leyft áður, og reyna með því móti að safna smásaman meiri og meiri kröptum, ef oss vildi gánga að óskum eins og á horfðist. Það hafði lengi verið ósk allra þeirra, sem vildu þekkja nákvæmlega ásigkomulag og hagi lands vors, að fá ljósari skýrslur um það, einsog fèlagið hafði frá upphafi ásett sèr að gefa, en aldrei getað komið til leiðar, svo að tímarit fèlagsins hafði ætíð minnstar fregnir um Ísland, síðan söguágrip það kom fram í annari deild sagnablaðanna, sem eg gat um áðan. Nú var þörfin til þessa orðin ennþá brýnni, síðan alþíng var sett, og reynslan hafði sýnt, að alþíngismenn vantaði allar almennar skýrslur um hagfræði landsins í öllum greinum, og um alla löggjöf og stjórnarathöfn á landinu. Þegar þetta efni kom til orða í deild vorri á fundi 18. November 1854, var það í fyrstu ætlun manna, að úr því mætti bæta með því að auka nokkuð Skírni; en það sýndi sig brátt, að hèr var miklu meira efni fyrir hendi en svo, að þessu mætti við koma, og voru þá stofnuð tvö ritsöfn um veturinn, svo að fyrsta hepti af báðum kom út um vorið eptir; það var annað „Skýrslur um landshagi á Íslandi", sem nú eru komin út þrjú bindi af, og byrjað á fjórða; en annað var „Tíðindi um stjórnarmálefni Íslands", sem komið er fram í annað bindi. Til beggja þessara ritsafna hefir stjórnin veitt fèlaginu styrk að góðum mun, því það er hvorttveggja

þesskonar rit, einkum landshagsskýrslurnar, sem landstjórn í öllum löndum álítur sèr skylt að kosta að öllu leyti. En eg segi sem fyr: látum oss eigi metast um það, en fögnum heldur því, að fèlagið framkvæmir þar nauðsynjaverk, og verum þakklátir við stjórnina fyrir það, að hún styrkir fèlagið til þess með góðvilja. — Á sama fundi og þegar var getið (18. Novembr. 1854) kom fram uppástúnga frá deildinni á Íslandi um, að fá útgefið íslenzkt fornbrèfasafn (Diplomatarium), og varð því framgengt með því móti, að eg fèkk nokkru síðar styrk frá stjórninni til að semja það, svo að eg gat boðið fèlaginu handritið fyrir ekkert (á fundi 18. December 1855), með því skilyrði að fèlagið borgaði prentkostnaðinn; þannig eru komin út af þessu safni þrjú hepti, og eg hefi mikið safn til framhaldsins. Enn var og samþykkt á þessum sama fundi, að fèlagið skyldi gefa út Biskupasögur vorar; fyrsta hepti af þeim kom út 1856, og síðan er komið út framhald af þeim fram í annað bindi, sem verður haldið áfram eptir því sem efni og kríngumstæður leyfa. — Þetta hafa verið aðalfyrirtækin í vorri deild, en þó höfum vèr þar að auki gefið út nokkur önnur rit, svosem Sálmasaungs og messubók eptir Pètur Guðjónsson, og Íslenzka málmyndalýsíng eptir Halldór Kr. Friðriksson; deildin á Íslandi hefir einnig á þessum árum gefið út talsvert, og get eg skýrskotað um það efni til skýrslu þeirrar, sem forseti þeirrar deildar mun gefa á fundi nú í dag. En þarhjá má eg geta þess, að deild vor hefir útvegað fèlagsmönnum mikinn hagnað í öðru, svosem með því, að stjórnin hefir af velvild sinni látið fèlaginu eptir til gefins útbýtíngar handa fèlagsmönnum ymsa bæklínga, sem sumir eru nauðsynleg eign fyrir bændur og búþegna, svo sem er jarðabókin (1861), en sumir hafa verið vel meðteknir af allri alþýðu manna, svo sem er Fiskibókin (1859) og Varníngsbókin (1860). Aðrar bækur hefir fèlagið keypt til útbýtíngar meðal fèlagsmanna, svosem Landafræðina eptir Halldór Kr. Friðriksson, og hið stóra safn af Íslenzkum þjóðsögum og æfintýrum eptir Jón Árnason, í fjórum deildum, sem er dýr bók og merkileg, og kostar alls tilsamans 13 ríkisdali hvert exemplar að bókhlöðuverði. — Eg veit ekki til, að neitt fèlag veiti sínum fèlagsmönnum eins mikið fyrir tillög þeirra, einsog fèlag vort hefir veitt síðan 1852, því síður meira.

Eigi að síður sýnir yfirlit það, sem eg nú skal leiða fram fyrir yður,

að fjárhagur fèlagsins hefir ekki gengið til þurðar, heldur farið batnandi, því þó að hinn fasti vaxtasjóður vor hafi ekki vaxið að tiltölu eins mikið og á hinum fyrri tímabilum fèlagsins, þá eru árstekjur þess nú miklu meiri að jafnaði, og eign þess í bókum og landsuppdráttum stórmikil að kalla má.

1850 voru árstekjur fèlagsins:

| | |
|---|---|
| í deildinni á Íslandi . . . . . . | 323 rd. 60 sk. |
| hèr í vorri deild . . . . . . . . | 785 - 88 - |
| tilsamans . . . | 1109 rd. 52 sk. |

ársútgjöldin:

| | |
|---|---|
| í deildinni á Íslandi . . . . . . | 253 rd. 60 sk. |
| hèr í vorri deild . . . . . . . . | 761 - 68 - |
| tilsamans . . . | 1015 rd. 32 sk. |

sjóður fèlagsins:

| | | | |
|---|---|---|---|
| í deildinni á Íslandi á vöxtum | 555 rd. » sk. | og í peníngum | 195 rd. 52 sk. |
| hèr í vorri deild — | 8300 - » - | — — | 309 - 90 - |
| tilsamans á vöxtum | 8855 rd. » sk. | og í peníngum | 505 rd. 44 sk. |

Þar að auki í bókum óseldum og landsuppdráttum eptir ágizkun hèrumbil 4000 ríkisdala virði. Í árstillag frá fèlagsmönnum galzt 1851: á Íslandi 134 rd. og í vorri deild 150 rd., tilsamans 284 rd.

1859 voru árstekjur fèlagsins:

| | |
|---|---|
| í deildinni á Íslandi . . . . . . | 427 rd. 15 sk. |
| hèr í vorri deild . . . . . . . . | 2742 - 3 - |
| tilsamans . . . | 3169 rd. 18 sk. |

ársútgjöldin:

| | |
|---|---|
| í deildinni á Íslandi . . . . . . | 380 rd. 2 sk. |
| hèr í vorri deild . . . . . . . . | 2201 - 78 - |
| tilsamans . . . | 2581 rd. 80 sk. |

sjóður fèlagsins:

| | | | |
|---|---|---|---|
| í deildinni á Íslandi á vöxtum | 805 rd. » sk. | og í peníngum | 339 rd. 26 sk. |
| hèr í vorri deild — | 8500 - » - | — — | 810 - 53 - |
| tilsamans á vöxtum | 9305 rd. » sk. | og í peníngum | 1149 rd. 79 sk. |

Í bókum óseldum og landsuppdráttum var eign fèlagsins hèrumbil 16,000 rd. virði. Í árstillag frá fèlagsmönnum galzt 1859: á Íslandi 321 rd. og í vorri deild 1523 rd.; tilsamans 1844 rd.

1865, nú eptir seinasta reikníngi, voru árstekjur fèlagsins:

| | |
|---|---|
| í deildinni á Íslandi . . . . . . | 796 rd. 16 sk. |
| hèr í vorri deild . . . . . . . . | 2799 - 76 - |
| tilsamans . . . | 3595 rd. 92 sk. |

ársútgjöldin:

| | |
|---|---|
| í deildinni á Íslandi . . . . . . | 912 rd. 36 sk. |
| hèr í vorri deild . . . . . . . . | 2412 - 57 - |
| tilsamans . . . | 3324 rd. 93 sk. |

sjóður fèlagsins:

| | | | |
|---|---|---|---|
| í deildinni á Íslandi | á vöxtum 650 rd. » sk. | og í peníngum | 53 rd. 34 sk. |
| hèr í vorri deild | — 8600 - » - | — — | 876 - 60 - |
| tilsamans | á vöxtum 9250 rd. » sk. | og í peníngum | 929 rd. 94 sk. |

Í bókum óseldum og landsuppdráttum var eign fèlagsins hèrumbil 21,500 rd. virði, og keypt ábyrgðarbrèf fyrir brunabætur til 20,000 ríkisdala. — Í árstillög frá fèlagsmönnum galzt 1865: á Íslandi 329 rd. og hèr í deildinni 1502 rd.; tilsamans 1831 rd. — Ef vèr berum saman fèlagsgjöldin, þá má telja svo, sem þau sè nú tvöföld í deildinni á Íslandi, en tíföld í vorri deild, og alls tilsamans sexföld við það sem þau voru 1850, svo að nú sè 600 fèlagsmenn, sem megi telja uppá til vissra árgjalda; þetta má að vísu heita mikið að tiltölu, en þó er það óheppilegt fyrir fèlagið, að eptir þessu ætti að gjöra ráð fyrir að 100 fèlagsmanna, eða sjöundi partur þeirra brygðist með tillagsgjald sitt á ári hverju, og er það fèlaginu mikill missir, ef ekki getur ráðizt bót á því.

Handritasafn fèlagsins hefir aukizt svo mikið á þessu tímabili, að það er nú orðið yfir 600 bindini að tölu, og þar á meðal mörg handrit fróðleg og merkileg á ymsan hátt. Þetta safn hefir mest aukizt fyrir góðvild ymsra bókmentavina á Íslandi, sem hafa sent fèlaginu smásaman eitt eða annað, eptir því sem til hefir fallið; meðal þessara má eg einkum nefna Jón Jónsson Borgfjörd, sem fyrrum var á Akureyri en nú í Reykjavík, því frá honum

hefir fèlagið fengið allmikið safn, og sumt góð og merkileg handrit. Með sèrlegu þakklæti má fèlagið minnast þess, að Guðmundur Einarsson, skrifari hjá sýslumanninum í Húnavatns sýslu, mjög mikill bókavinur og fróðleiksmaður, sonur Einars Bjarnasonar á Mælifelli, sem hefir samið Fræðimannatal íslenzkt og ritað að auki fjölda bóka, hafði gefið eða ánafnað fèlaginu öll handrit sín og bækur eptir sinn dag; þetta safn er nú komið til deildarinnar í Reykjavík og geymt hjá henni. Sum handritin hefir fèlagið keypt, og get eg þess einkum, að deild vor hefir með því móti fengið töluvert safn af frumritum eptir Jón Espólín, sem sonur hans síra Hákon Espólín hefir góðfúslega eptir látið fèlaginu með sanngjörnum kostum. Handritasafn vort hèr er í góðri reglu, og registur tilbúið yfir það, sem vèr getum prentað þegar færi gefst, svo sem deildin hefir þegar ályktað (16. Mai 1860).

Eptir það brann fyrir deild vorri, sem eg skýrði frá áðan, höfðum vèr um hríð ekkert húsrúm til að geyma í handrit og bækur sem fèlagið átti. Á fundi 20. Septembr. 1851 var það ákveðið, að vèr skyldum fá oss geymsluhús, og tókum vèr þá fyrst um sinn herbergi á leigu, en síðan vildi svo heppilega til, að herbergi nokkur urðu laus á Amalienborg, sem innanríkisráðgjafinn hafði yfir að segja. Fyrir góðvild hans við fèlagið fengum vèr þá um stund tvö herbergi, og nokkru síðar önnur tvö í viðbót, leigulaust, en síðan höfum vèr fengið að halda þessum geymsluhúsum híngað til, og eg vona, þó að vèr yrðum neyddir til að flytja þaðan söfn vor, að vèr fáum þá annað geymsluhús í staðinn, því söfn fèlagsins eru svo mikils verð, að þau verða að vera geymd á þeim stað, sem óhultastur verður fenginn.

Til þess að gefa greinilegt yfirlit yfir stjórn fèlagsins, fjárhag þess og störf, verður látið fylgja skýrslu þessari: embættismanna tal í báðum deildum fèlagsins, frá 1816 og til 1866[1]; þarnæst skrá um vaxtasjóð fèlagsins og hversu hann hefir aukizt á ári hverju á sama tímabili[2]; og í þriðja lagi skrá um þær bækur, sem fèlagið hefir látið á prent út gánga á hinu sama tímabili, og svo á hverju ári síðan 1852[3].

Það er auðsætt, að fèlag vort hefði ekki getað afrekað svo miklu, ef

[1]) sjá fylgiskjal 15.
[2]) sjá fylgiskjal 16.
[3]) sjá fylgiskjal 17.

það hefði ekki notið sèrstaklegrar aðstoðar nokkurra velgjörðamanna, sem virtu mikils og vildu styrkja hinn góða tilgáng og viðleitni fèlagsins. Fyrst og fremst má eg telja þartil **konúnga** vora, hvern fram af öðrum, sem hafa veitt fèlaginu frá 100 til 200 rd. árlega hver eptir annan. Tveir hinir síðustu hafa gjörzt **verndarar** fèlagsins, og við sèrhvert tækifæri sýnt því konúnglega náð og mildi. Af hendi **stjórnarinnar** hefir fèlagið notið einnig mikils styrks á margan hátt til framkvæmda sinna, svo sem þetta stutta yfirlit á mörgum stöðum vottar. Eg hefi áður getið þess höfðíngskapar, sem greifi Adam Vilh. **Moltke** að Bregentveð sýndi fèlaginu, með því að veita því 100 ríkisdala heiðursgjöf árlega um heilan mannsaldur, og svo hafa einstaka menn bæði hèr í Danmörku og í öðrum löndum sýnt fèlaginu sóma á ymsan hátt, og veitt því styrk í heiðurs skyni. Meðal þeirra megum vèr einkum minnast þeirra gjafa, sem **Bligh Peacock**, kaupmaður í Sunderlandi á Englandi, og annar trúfastur **vinur Íslands** og þessa vors fèlags, veittu fyrir nokkrum árum síðan til verðlauna fyrir ritgjörð um framfarir Íslands, einkanlega um, hversu koma mætti upp jarðrækt landsins, greiða fyrir vöruflutníngum og samgaungum, og um sèrhvað það, sem efla mætti þjóðmegun og hagsæld Íslendínga. Þegar svo margir menn, og það útlendir, hafa slíkar mætur á bókmentum vorum, og leggja svo mikinn hug á framför þeirra og velgengni lands vors, þá ætti það að vera hin mesta hvöt fyrir oss, að láta ekki vorn hluta eptir liggja, heldur að neyta allra krapta til að stunda gagn sjálfra vor, að koma til leiðar því sem vèr sjálfir höfum beztan ávöxtinn af; því það má sannast ekki sízt á oss og á fèlagi voru, að verkið, sem fyrir liggur, er mikið, en verkmenn helzt til of fáir til að vinna það, og þessvegna veitir ekki af, þó hver leggi fram það sem hann hefir til, og liggi ekki á liði sínu.

En þó mart og mikið sè enn eptir óunnið, og minna að gjört en vera skyldi og þörf er til, þá vona eg samt, að þetta stutta yfirlit sýni, að vèr getum allir litið með ánægju og gleði yfir fèlagsins liðnu æfi, og haft beztu vonir um, að það geti með sífelt vaxandi efnum og andlegum kröptum áorkað meira og meira, til frama og eflíngar fyrir íslenzkar bókmentir og þjóð vorri til sóma.

Menn hafa stundum sagt, að það væri undarlegt, að Íslendíngar væri almennt svo bókfróðir menn, en þar á móti mjög fáfróðir í verklegum efnum.

Þetta er því miður alltof satt, en það er líka eðlilegt, eptir því sem ástand lands vors og stjórnarmeðferð hefir verið um lángan aldur, sem vèr höfum ekki haft bolmagn til að vinna bót á. En vèr þurfum ekki þarfyrir að iðrast eptir, þó vèr höfum verið bókmenta vinir. Það eru bókmentir vorar, sem hafa gjört, að

andinn lifir æ hinn sami,
þótt afl og þroska nauðir lami,

eins og skáldið sagði, og ef vèr höldum fast við þenna grundvöll, þá munum vèr smásaman verða færir um að taka oss fram í allri verklegri athöfn, eptir því sem landi voru og þjóð vex þrek og kraptar, því mentanin er hin bezta undirstaða allrar framfarar.

Eg enda þessa fáorðu skýrslu með þeirri bæn, að hinn algóði guð haldi sinni hendi yfir vorum allramildasta konúngi, yfir Íslandi, vorri ástkæru fósturjörð, og öllum hennar og fèlags vors vinum og styrktarmönnum bæði nær og fjær.

---

Eptir fundinn um kvöldið hèldu fèlagsmenn samsæti, og er hèr viðtengd stutt skýrsla um það, og kvæðið sem súngið var fyrir minni hins íslenzka Bókmentafèlags[1].

---

[1]) sjá fylgiskjal 18

# Fylgiskjöl.

## 1. Frumvarp og boðsbrèf Rasks til Íslendínga, um að stofna fèlag til að efla bókmentir landsins. Reykjavík 27. Februar 1815[1].

Það er sannleikur, sem enginn mun um efast, að Íslenzkir eigi ekki stríðsmakt eður höndlun, heldur skáldum og sagnameisturum að þakka þá frægð, sem þeir hafa öðlazt hjá öðrum þjóðum í Norðurálfunni, og að miklu leyti þá upplýsíngu, sem enn í dag við gengst á millum alþýðu manna hèr á landi, ásamt þeirri æru, að hafa einir varðveitt nærri því óumbreytta og óspillta þá gömlu og ágætu aðaltúngu á Norðurlöndum.

Að sönnu hefir þjóðanna ástand umbreytt sèr svo mikið, og kunstir og vísindi hjá mörgum þeirra aukizt svo furðanlega, síðan fornmanna skáldskapur og yfir höfuð að tala bókaskript á Íslandi blómgaðist; en Íslenzkir þess á milli vegna ýmissra óhappa orðið svo lángt eptir, að varla er til vonar að nýjar bækur á þessu máli nái eins miklu áliti hjá útlenzkum og þær gömlu; en þess þarfari kannske þær verði þjóðinni sjálfri, eigi hún að verða hluttakandi í þeirri mentun og þekkíngu, sem nú er upp komin og kappsamlega iðkuð í öðrum löndum, þar ekkert annað mál er mögulegt til að fræða almenníng hèr á landi; því vildu menn innleiða annað mál, eða láta sèr nægja annara þjóða rit — þá mundu líða nokkur hundruð og kannske þúsund ár,

---

[1]) Prentað eptir uppskript frumritsins, sem síra Björn þorgrímsson á Setbergi, prófastur í Snæfellsness sýslu, hefir staðfest, og hefir þessi uppskript gengið meðal prestanna þar í sýslu í Helgafells sveit og á Skógarströnd, en þeir hafa ritað þetta uppá:

Til þessa fèlags vil eg leggja 3 mk. Helgafelli 18. Juni 1815.

S. M. Holm pastor loci.

Ego etiam 2 mk.

G. Olavsson capell. samastaðar.

Lukku fái fèlagið! eg vil glaður gefa einnig 3 mk., og óska að þetta lofsverða fyrirtæki fái góðan framgáng.

Jón Hjaltalín á Breiðabólstað á Skógarströnd.

fyrr en þau yrði almenníngi hèr skiljanleg; en þess á milli kynni máske nýtt túngumál að vera upp komið utanlands, og Íslenzkir mundu þá eins illa staddir og fyrr. Þess vegna, þó móðurmálið sè mikils metið hjá öllum siðuðum þjóðum, svo er þó að mínu áliti einna mest á Íslandi þess viðhald, og bókaskript þarí, einhver sá helzti stofn undir sóma, mentun og farsæld þjóðarinnar. Allir föðurlandsvinir munu líka játa með sorg, að mart og mikið vanti enn að skrásetja á Íslenzku; því t. d. ekkert er kverið þeim til leiðarvísis, er girnast að læra Dönsku eður Engelsku, svo eg tali ekki um önnur mál; engin orðabókin frá Dönsku eður nokkru öðru máli til Íslenzku; engin samanhángandi Íslendínga saga, enn síður veraldarsaga; ekkert brúkanlegt um landaskipun, þau snotru vísindi, náttúrufræði eða heimspeki; fáar eða engar skólabækur[1], og engin fáanleg og góð útgáfa af lögbókum; en óprentaður liggur fjöldi af beztu skáldaverkum og öðrum bókum, svo sem kvæði síra Stepháns í Vallanesi, Eggerts Ólafssonar kvæði og fornyrði Páls Vídalíns, Paradísar missir síra Jóns Þorlákssonar og annað, sem gjöra mundi því íslenzka nafni ódauðlega æru, og ekki all-lítið efla lestrarlyst, smekk og mentun, ef það yrði útgefið, en annars smásaman dreifist, skemmist og týnist. En margföld reynsla hefir sýnt og sannað, að það sè ómögulegt að útgefa töluverðar bækur hèr, eins og í fjölmennum löndum, einúngis í voninni, að þær verði vel og strax útgengilegar.

Til þess þar fyrir, ef verða mætti, að nokkru leyti að vinna bót á þessu, hefir mèr til hugar komið hèrmeð að innbjóða lærðum mönnum og öðrum lærdóms elskendum á Íslandi til að hefja nýtt sèrlegt fèlag, eptir þessu undirlagi:

1) Fèlagið á að leiða i ljós meistaraverk, sem allareiðu rituð eru á Íslenzku, einkum þau, hverra höfundar eru dauðir, og sem hættast er við að týnist, en landinu væri hinn mesti sómi að; þarnæst að útvega þær nauðsynlegustu bækur ritaðar, eða útlagðar og prentaðar, einkum þær, sem brúkast eða brúkazt geta við kennsluna í skólanum.

2) Þó að í fyrstunni væri ástofnað, að láta þá grein af bókaskriptinni, sem horfir til að efla guðrækni og upplýsíng í trúarbrögðunum, vera þann fyrsta höfuðpóst í augnamiði þessa fèlags, svo virðist þess nú síður þörf, þar sá lærði og velgáfaði kennimaður, síra Jón Jónsson á Möðrufelli, hefir nýlega stiptað sèrlegt fèlag

---

[1]) þessi brestur mun skaðsamlegri en margur hugsar: af þeim dönsku bókum mun líklega sá siður kominn, að nefna alla þá hluti, sem skólalærdómi við koma, svo og flestöll lönd og staði með dönskum nöfnum, eða þó heldur með orðskrípum úr Dönsku, svo sem: Sluttning, Fylgja, Forelesningar, yfirsetja (ɔ: ályktun, *afleiðíng*, *fyrirlestrar*, *útleggja eða þýða*) og ótal fleiri, hvað ekki einasta skemmir og óprýðir málið hræðilega, heldur líka gjörir það að verkum, að vísindamenn loksins fá allt annað mál heldur en almenníngur, hverjum öll mentum viðkomandi efni smásaman verða óskiljanleg; en ef það yrði, þá færi betur að málinu yrði útrýmt með öllu. (athugagrein Rasks).

fyrir norðan, sem hefir þetta eina fyrir augnamið, og sem hefir haft svo góðan framgáng. Annað nafnkunnugt fèlag er líka til utanlands, einasta til að annast þau íslenzku fornfræði [nefnilega: Árna Magnússonar nefndin]. Þar nú líka svo ótal mart annað er yfrið þarflegt landi og lýð, svo álít eg það fyrir lukku, að þetta nýja fèlag geti tekizt þeim mun minna í fáng, og ætla að sleppa tveimur áminnztum greinum, án þess þó að fortaka, að fèlagið útgefi góða bók í guðfræði, eða fallega fornmanna sögu með tímanum.

3) Að fèlagið, eptir því sem hentugleikar leyfa og þörf krefur, útgefi hverja bók fyrir sig, ekki í einu ritsafni, hvarvið bágara verður að eignast nokkuð heilt af því; ekki heldur eptir vissum tímum, nema kannske ofurstutt frèttablöð handa Íslendíngum (ef þess verður kostur), hvarí fèlagið gæti líka kunngjört, hver verk að yrðu útgefin, og hver efni það óskaði útlistuð.

4) Að vanda mál, prent og pappír svosem verður, og láta verðið vera svo lítið sem mögulegt, en ekki eptirláta fèlaginu neinar bækur ókeypis, heldur verja öllu til að útgefa fleiri, og framkvæma tilgánginn hið ýtrasta.

5) Ekki skulu fèlagslimir skuldbindast að rita neitt sjálfir, framar en hver finnur köllun til hjá sjálfum sèr, heldur skulu fèlaginu vera eins kærkomin allra manna skrif, sem horfa til að uppfylla þess fyrir ofan (undir Nr. 1) ákvörðuðu augnamið; þó áskilur það sèr að dæma um það, sem innsent verður, hvað þarflegt og verðugt er að leggjast fyrir almenníng.

6) Þareð þetta sýnist landinu svo þarflegt, og ekkert þesshàttar fèlag eða nein þvílík innrètting önnur nú er til, og þareð föðurlandsást Íslendínga er svo margreynd og alkunnug, svo hefi eg þá vissu von, að lærdóms elskendur og föðurlands vinir muni ekki heldur nú undan færast að efla svo velmeint og nytsamlegt fyrirtæki, þótt danskur maður biðji þess. Óska eg þá, að hver sá, er þóknast að styðja þess framkvæmd, vili gjöra svo vel, að skrifa fyrir neðan, ásamt nafni og bústað, hvað mikið eða lítið í silfri hann, hver eptir sinni megun og vilja, skuldbindur sig til að gefa fèlaginu árlega.

7) Loksins bið eg að senda þessa lista, þess fyrr því kærara, aptur til mín, eða til síra Árna Helgasonar, dómkirkjuprests að Reykjavík, svo eg sjái, áður en eg sigli að sumri, hvort þar er nokkur von til að fyrirtækið lukkist, þá eg ætla líka að snúa mèr til Íslendínga utanlands, og til Danskra og annara, sem eg veit að óska Islandi heilla og sóma. Því mín fyrirætlan er, ef verður, að hafa fèlagið bæði hèr og ytra, nefnilega eina stjórnarnefnd hèr í Vík og aðra í Höfn. En svo enginn verði prettaður, ef summan af þeim árlega styrk yrði of lítil til að byrja svo vandasamt fyrirtæki á svo dýrum tíðum, þá á enginn að svara neinu fyr en listarnir eru inn komnir, og þareptir verður gefin sèrleg bendíng.

Reykjavík þann 27. Februar 1815.

auðmjúkast og vinsamlegast
R. Rask.

2. Umburðarbrèf **Geirs Vídalíns**, biskups yfir Íslandi, til prófastanna, að hann sendir þeim boðsbrèf Rasks og mælir með því. Reykjavík 10. Marts 1815[1].

Bibliothekarius við bókasafn háskólans í Kaupmannahöfn herra Rasmus Christian Rask, sem þegar mun alkunnur orðinn víða um Norðurlönd fyrir afbragðs mikla og velgrundaða þekkíngu á flestum túngumálum og þaraðlútandi vísindum, einkum Norrænu, er hann kann máske flestum öðrum fremur á sinni tíð, hefir eins og Yðar Velæruverðugheitum líklega er kunnugt, dvalið hèr á landi framundir í tvö ár, og á meðan, bæði með ferð um þrjá fjórðúnga landsins og eins við aðsetur sín á milli, með einka kostgæfni framað enn ítarlegar kunnáttu sína, safnað sèr fjölda af allskonar ennþá óprentuðum ritgjörðum landa vorra, og svo jafnframt þessu hvervetna kynnt sig að stakri valmennsku, frómlyndi og dugnaði.

Þessi ágæti úngi maður, sem áður enn hann kom híngað til lands hafði lengi með alúð leitazt við eptir megni að liðsinna löndum vorum, þeim er vísindi stunduðu við Kaupmannahafnar háskóla, og sem nú lætur sèr innilega umhugaða eflíngu alls þess, er verða mætti oss Íslendíngum til gagns og sóma, hefir ei alls fyrir laungu samið og sent mèr frumvarp og boðsbrèf til lærðra manna og lærdóms elskara vor á meðal, að stipta fèlag eitt, hvers limir skyldu með árlegu tillagi í silfurpeníngum (ei minna en átta skildíngum), hvers upphæð sèrhver fyrirfram ákvarða skyldi, eptir efnum og eigin vild, skjóta saman fè, til þess að kosta prentun þvílíkra bóka, er boðsbrèfið sjálft víkur á, og valdir forstöðumenn fèlagsins álitu mesta nauðsyn í ljós að leiða.

Undireins og eg sendi Yðar Velæruverðugheitum áðurnefnt boðsbrèf, með þeim ummælum, að þèr þóknanlega vilduð birta það meðal hinna andlegu stèttar manna í yðar prófastsdæmi, gjöra ráðstöfun fyrir, að hver sem vill í fèlag þetta inn gánga teikni á brèfið nafn sitt, heimili og tillag, með tilhlýðilegri orðu, og að því búnu verði skjalið sent mèr aptur tímanlega sumars, ei seinna en innan 10. Julii næstkomandi — má eg fyrir minn part geta þess, að þarsem nokkuð töluvert safnast af fè til framkvæmdar þessa fyrirtækis, og duglega forstöðumenn ekki annars brestur, virðist mèr all-líklegt það á margan hátt efla muni gagn og heiður landa vorra, og einkum verða voru ágæta móðurmáli til viðrèttíngar og varðveizlu.

Reykjavík þann 10. Marts 1815.

Geir Vídalín.

---

[1]) Eptir uppskript frumritsins, sem prófasturinn í Snæfellsness sýslu, síra Björn Þorgrímsson á Setbergi hefir ritað og staðfest, og hefir gengið meðal prestanna þar í sýslu í Helgafellssveit og á Skógarströnd.

### 3. Boðsbrêf Rasks til Englendínga, til að styrkja hið íslenzka Bókmentafêlag. Leith á Skotlandi 21. Septembr. 1815[1].

For a pretty long time all the Gothic nations, in æmulation of one another, have taken a peculiar care to preserve the antiqvities of the whole tribe of their common ancestors, as being nearly connected with their national glory and a material branch of ancient history, very usefull to keep up the public spirit and interesting to men of letters. But I wonder how they could overlook the noblest of all those sacred relicks and carelessly leave it to the all destroying injuries of time. This most valuable remainder of Gothic antiqvity, almost the only one preserved in Iceland, is certainly the ancient general language of all the kingdoms of the North, which is still spoken throughout that island to a truly astonishing degree of purity and elegance. This I may pretend to ascertain for, having travelled through the kingdoms of Denmark and Sweden and parts of Norway in order to study the languages and philological antiqvities of the North, I have now spent these two years in travelling around the island of Iceland to inqvire into the present state of that remarkable language and in every corner of the country I have been able to converse with the natives in the ancient scandinavian tongue, and I have found them reading still the old sagas of the champions of the heroic age, nay there are some songs of Edda celebrating the exploits of the heathen deities still understood by every peasant boy with exception of a few difficult words. But as the poverty of the people has increased, printing almost is fallen into disuse, and the literature and language are certainly in a declining state; the most valuable productions of wit and learning of later times, existing only in manuscripts and in danger of being lost for ever. As for instance a most excellent poetical translation of Milton's Paradise lost, of which only the two first books have been published. With a view therefore to preserve the language, literature and knowledge in the island I have invited all lovers of learning in the country to establish a society with annual gifts to publish such masterpieces as are written in later times and to procure such new books as are wanting but necessary to keep up and increase learning and useful information in every way of life, and they have subscribed in considerable number in proportion to the scanty population. But as the Icelandic or old Scandinavian is the source of part of the English and Scottish, and besides the Anglosaxon (the chief-source of both) is so very nearly related to it, and in itself so difficult and confused, owing only to the incessant irruptions of the ancient Scandinavians, that, if I may believe my own experience at the compiling of a new Anglosaxon Grammar, I imagine, it will never

[1]) Prentað eptir frumrituðu uppkasti, með hendi Rasks.

be sufficiently extricated but through perpetual succour from the Icelandic: I thought the Britons, the most wealthy of all the gothic nations, ought not to be altogether unconcerned about its conservation. Besides, although a Dane myself, I thought it an injury to the poor Icelanders, and perhaps to the English generosity and zeal for every kind of knowledge, if I should not invite the British lovers of Northern antiqvities and patrons of the poor but most respectable people of Iceland to partake in this society.

Any contribution great or little, annual or not, will be received with gratitude. The subscribers will be pleased to write beneath their name, situation, place of residence and the amount and kind of the assistance they intend to bestow, and the collectors of subscribers will please to send back the lists either to the Rev. Mr. Arne Helgason minister at the Cathedral of Reykiawick in Iceland, the president of the society, or to me.

Leith the 21 of Sept. 1815.

R. Rask,
Under-librarian of the university in Copenhagen.

---

## 4. Boðsbrèf Rasks til Íslendínga og Íslands vina í Kaupmannahöfn, að halda fund og taka sig saman til að koma á fót hinu íslenzka Bókmentafèlagi. Kaupmannahöfn 1. Januar 1816[1].

Sèrhver íslenzkur maður, sem ekki er öldúngis ókunnugur í heiminum, mun viðurkenna, að gamla Norrænan sè sú helzta undirrót Íslands sóma; því væri ekki gamli skáldskapurinn, sögurnar og aðaltúngan, móðir allra túngumála á Norðurlöndum, þá mundi varla nokkur maður í framandi löndum þekkja þjóð eða land, nè heldur forvitnast þar um, framar en um aðra villiþjóð eður eyðimörk. Íslenzkan er líka það einasta eða þó helzta meðal til að viðhalda og útbreiða lærdóm og þekkíngu, bæta búskap, innleiða forbetranir og yfirhöfuð auka farsæld þjóðarinnar, því með engu öðru geta menn frædt almenníng þar; því vildu menn innleiða annað mál, þá mundu líða margar aldir áður það yrði almenníngi vel skiljanlegt, og þá væri líklega farin hennar[2]

[1]) Prentað eptir frumritinu, með hendi Rasks, og með áskript sjálfra hluttakendanna. Brèfið er nokkuð skaddað og fyllt út eptir ágizkan.
[2]) þ. e. þjóðarinnar.

lestrarlyst og álit hjá öðrum. Norrænunnar viðhald og bókaskript þar í er því eitt það mest-væga efni, sem íslenzkur föðurlandsvinur getur íhugað.

En hèr er meiri brestur á en vera skyldi, þar sem öll bókaskript á Íslenzku og prentun er nærri undir lok liðin, og málið víða farið að spillast, en helzt hjá lærðum mönnum, þó skömm sè til að vita. Það er annars nógu náttúrlegt, þar varla er nokkur sú mentagrein, í hverri maður af íslenzkum bókum geti lagt sèr góðan grundvöll, fengið góða almenna útsjón, auk heldur gengið víðar; venjast því Frónskir frá blautu barnsbeini við útlenzkt mál, og Íslenzkir týna niður Íslenzku, en almúginn, sem sjálfur er útilokaður frá annara þjóða bókaskript, fær litla uppbyggíngu af þessum lærdómi, sem honum er óskiljanlegur. Ef þetta viðgengst, mun þjóðin, þó hún sè nógu lítil, óumflýjanlega tvískiptast, og mun annar parturinn (taka upp) smásaman annað mál og aðra siðu, fyrirlíta a(llskostar hinn, og þykja hann klúr) og búralegur; þá mun líka útgjört um hennar (framfarir í andlegum efnum).

Til þess að reisa hèr skorður við, ef verða (mætti, hafa nú fyrir skömmu) margir föðurlandsvinir og sómamenn á Ísl(andi gengið í fèlag nokkurt), hvers tilgángur er, með árlegum styrk, sem er (til tekinn eptir hvers eins) vilja og efnum, að útgefa allskonar bæ(kur á íslenzkri túngu) að undantekinni guðfræði og fornfræðum, s(em ýms önnur fèlög) annast, hvað annars er og verður ómögu(legt að svo komnu), þar menn geta ekki reidt sig uppá, að bæk(ur slíkrar tegundar launi) vel kostnaðinn, heldur verða að ætlast til (að fèlagið kosti hverja bók, sem) útgefin verður.

Þetta fèlag fól mèr á he(ndur, að leita því) aðstoðar hèr og annarstaðar; eg dirfist þ(essvegna hèrmeð að bjóða) öllum innfæddum Íslenzkum hèr í ríkinu til (að styrkja þetta fèlag) til eigin föðurlands sóma og frama, hver ept(ir sínum efnum); þykist eg vita fyrir víst, að kaupmenn og að(rir þeir menn, sem eiga) Íslandi að þakka líf, uppeldi og velmegun, að (þeir eigi síður en bræður þeirra á) Íslandi muni fagna þessu tækifæri til að (geta veitt fósturjörð sinni styrk) af þessum fjárafla, svo sem uppí þá ena mi(klu skuld, er þeir fá aldrei) fullborgað, svo og líka til að rèttlæta fyrir (heiminum í verkinu) þá frægð fyrir föðurlandsást og lærdómselsku, sem Íslenzkir hafa fengið hjá öðrum siðuðum þjóðum í Norðurálfunni; en lærðir menn og stúdentar munu helzt keppast með ritum að sýna frændum sínum og löndum dálítinn ávöxt sinnar ástundunarsemi, svo sem merki til þess, hvernig þeir verja þeim dýrmæta og opt kostnaðarsama tíma, sem þeir eyða við háskólann, og hver von sè til, að þeir einhverntíma verði foreldrum og föðurlandi til sóma og uppbyggíngar.

Í þessari glöðu von bið eg alla þá, sem þóknast að inngánga í þetta íslenzka fèlag, að teikna fyrir neðan, ásamt nafni, standi og bústað, með hvað miklu eða litlu sèrhver skuldbindur sig að styrkja fèlagið árlega. En ef þeir verða svo margir, að nokkur hluti fèlagsins, eins og til er ætlað, geti viðhaldizt hèr, en annar á Íslandi, þá ætla eg, sem fyrst eptir það listinn kemur aptur, að bjóða fèlagslimum til samkomu

á þeim stað, sem þá mun tiltekið, svo eg geti frekar skýrt frá fèlaginu og þess innrèttíngu á Íslandi, og fèlagslimir sjálfir samkvæmt því lagað og reglubundið þenna part fèlagsins og lagt þegar hönd á verkið, því lífið er stutt hjá því enu mikla, sem ógjört er í þessu efni.

Kaupmannahöfn þann 1. Januar 1816.

auðmjúkast og vinsamlegast
R. Rask.

| Nafn og stand. | Bústaður. | Árlegur styrkur. |
|---|---|---|
| Regimentsqvartermeistari Grímur Jónsson . . | Sqvaldergaden Nr. 195 . . | 16 Rbd. í S.V. |
| (Rentukammer)fullmektugur B. Thorsteinsson . | sama stað. . . . . . . . | 10 — — |
| (Professor Finnur) Magnusson . . . . . . . . . | Vognmagergaden Nr. 88 . | 10 — — |
| (Kaupmaður B.) Sivertsen . . . . . . . . . . . . | . . . . . . . . . . . . . | 15 — — |
| (Grosserer) K. Isfiord . . . . . . . . . . . . . | Strandgaden, Christianshavn, Nr. 41 . . . . . | 20 — — |
| (Professor B. Thor)lacius . . . . . . . . . . . . | Raadhuusstræde Nr. 45 . | 15 — — |
| (Hvis det) er i Selskabets Plan (at udgive) Sturlunga eller andre (ikke udgi)vne gamle gode histo(riske Skrift)er, saa tilbyder desu(den B. Th)orlacius, naar Udgivel(sen v)irkelig begynder, at (give 10)0 Rbdlr. S. V. aarligen (saa længe) Udgivelsen varer. | | |
| (Th. E. Range)l giver aarlig . . . . . . . . . . | Compagniestræde Nr. 42 | 3 — — |
| (Stud. juris) O. S. Stephensen. . . . . . . . . | Regentsen . . . . . . . . | 5 — — |
| (Sveinbj)örn Egilsson stud. theol. . . . . . . . | Regentsen . . . . . . . . | 5 — — |
| (Olafur Thorar)ensen, stud. med. . . . . . . . | Regentsen . . . . . . . . | 5 — — |
| (Jon Thors)teinsen, stud. philolog. . . . . . . | Regentsen . . . . . . . . | 3 — — |
| (Sigurður Tho)rarensen, stud. theol. . . . . . . | Regentsen . . . . . . . . | 5 — — |
| (Þórarinn) Magnusson Öefiord, stud. philos. . | Regentsen . . . . . . . . | 5 — — |
| Gunnlaugr Oddsen, stud. theol. . . . . . . . | Regentsen 3 Gang Nr. 5 | 5 — — |
| Þorleifur Guðmundson Repp, cand. philos. . | Regentsen . . . . . . . . | 3 — — |
| Guðmundur Bjarnesen, stud. theol. . . . . . | Regentsen 4 Gang Nr. 8 | 5 — — |
| Wigfús Erichsen, cand. jur. . . . . . . . . . | Regentsen 4 Gang Nr. 8 | 5 — — |
| Jón Finnsson, cand. jur. . . . . . . . . . . . | Regentsen 4 Gang Nr. 6 | 5 — — |
| Ólafur Finnsson, stud. jur. . . . . . . . . . . | samastaðar . . . . . . . . | 5 — — |
| Gisle Brinjulfsson, stud. philolog. . . . . . . | Regentsen 6 Gang Nr. 1 | 5 — — |

| Nafn og stand. | Bústaður. | Árlegur styrkur. |
|---|---|---|
| Sigurður Gunnlögsson, stud. med. | Regentsen 6. Gang Nr. 8 | 3 Rbd. S. V. |
| H. G. Thordersen, stud. theol. | Regentsen 2. Gang Nr. 7 | 3 — — |
| Önundur Haldorsen, Skrædermester | Sqvalderg. Nr. 187 i Stuen | 3 — — |
| Haldor Schow, Fuldmægtig ved Faltigvæsenet | . . . . . . . . . . . . . . | 3 — — |
| P. Paulsson, stud. philolog. | Viingaardstr. 129' Litr. A. | 5 — — |
| Þorlákur B. Thorgrimson, stud. philolog. | samastaðar | 5 — — |
| O. G. Effersöe, stud. jur. | samastaðar | 5 — — |
| Torfi Thorgrimson, stud. jur. | samastaðar | 5 — — |
| W. Gunnarsen | Store Grönnegade Nr. 262 | 5 — — |
| J. Sigvatssen | ved Jörned af Ros. og Reigingsgaden Nr. 437 | 3 — — |
| I. Isfeldt | Store Kongensgade Nr. 52 | 5 — — |
| E. Gudmundsen, cand. chirurg. | Söetatens Hospital | 10 — — |
| O. M. Stephensen | Skidenstræde Nr. 73 | 5 — — |
| W. Thorarensen, undir-cancellisti | Stóru Kjöbmagerg. Nr. 5 | 8 — — |
| [L. Thorarensen | Store Kjöbmagerg. Nr. 5 | 5 — — |
| M. Stephensen | Regentsen | 5 — — |
| P. Petersen | Regentsen | 3 — — |
| Þórður Sveinbjörnsson[1] | . . . . . . . . . . . . . | 5 — — |

## 5. Áskoran frá Rask til Dana, að styrkja hið nýja íslenzka Bókmentafèlag. Kaupmannahöfn 27. Marts 1816[2].

Alle gotiske Folkefærd have for lang Tid siden begyndt omkaps med hinanden at samle og forklare deres Oldsager, for at bevare Mindet om Fædrenes Daad og Tidernes Afvexlinger, som er saa nöie forbundet med Nationalæren og saa væsentlig en Deel af Videnskabelighed overhoved. De Danske have heller ikke staaet tilbage i

[1]) Þessi fjögur nöfn, hin seinustu, hljóta að vera rituð síðar á skrána, því þeir þrír, Laurus Thorarensen, Magnús Stephensen og Páll Pètursson voru fyrst innskrifaðir í stúdenta tölu við háskólann 19. Oktobr. 1816, og Þórður Sveinbjarnarson enda ekki fyr en 1817, og er kosníng hans í fèlagið bókuð 7. Novbr. 1817.

[2]) Prentað eptir Nyeste Skilderie af Kjöbenhavn 1816, 21. Mai (Nr. 41, á 650—652 dálki).

denne Henseende, men det er besynderligt, at man har overseet den herligste af disse hellige Levninger, og skjödeslöst overladt dem til den Alt fortærende Tid. Den herligste Levning af alle gothiske Folks Oldsager bör man vel med Rette kalde det gamle Sprog, som tilforn var almindeligt over hele Norden, hvori Brage fordum fortryllede Naturens Sön, Saga opflammede den unge Helt til Snildhed og ædel Daad, for at ligne Fædrene, og endnu i vort eget Skjöd Runestenene fortælle os om Gorm den Gamle og Thyre Dannebod, hvoraf endelig vort nuværende Dansk er en Gjenlyd, lig en yndig Datter af en alvorligere og fuldkomnere Moder. Denne gamle danske Tunge, uden hvilken vort nuværende Sprog, vor gamle Gudelære, Oldsager, Historie, Love og andre literaire Mindesmærker vilde være os en evig tillukt Bog, lever endnu, tales endnu af en Deel af vore Medborgere, Islænderne. Dette kan jeg bevidne af egen Erfaring, da jeg paa min Reise omkring Island i Aarene 1813, 14 og 15, overalt har hört dem tale den til en, med Hensyn til Tidens Længde, utrolig Grad af Reenhed og Skjönhed, overalt seet dem læse de gamle Sagaer om den heroiske Alder med Henrykkelse. Ikke desmindre er Omgangen med Fremmede og Fattigdommen i Landet Skyld i, at baade Sprog og Literatur begynde at forfalde; det synes derfor ikke uværdigt det danske Folk, at række Haanden til at vedligeholde denne herlige Arv fra Oldfædrene, saa at den, der vil begrunde og skildre vore Fædres Oprindelse, Bedrifter, Mindesmærker, Tænkemaade og hele Liv, tillige bestandig kan forefinde deres Sprog levende. Hvormeget vilde ikke en Dyrker af Grækernes og Romernes Literatur give, for blot et Öieblik at kunne tale med en Mand fra det gamle Athenen eller Rom! — Adgangen til en lignende Nydelse for dem, der studere vor egen Oldtid og vor egen gamle Literatur, staaer endnu aaben, og burde vi spare en liden Opoffrelse for at kunne overlevere den til Efterslægten?

Dette Sprogs og denne Literaturs Vedligeholdelse er ogsaa det eneste Middel til at udbrede Oplysning, befordre et bedre Landbrug og andre nyttige Foretagender paa Island, da det er det eneste Sprog, som Folket forstaaer, og altfor dybt grundfæstet, samt Befolkningen i Landet altfor adspredt til, at man i mindre end et tusind Aar kunde haabe at indföre et andet Sprog, hvorvel det nuværende paa kortere Tid lettelig kunde fordærves, saa at Indbyggerne i Mellemtiden vilde savne alle Fordele af Literatur. Ogsaa af denne Grund synes det ikke upassende, at Danske bidrage til at udbrede Oplysning og Lyksaligbed blandt Medborgerne, da enhver saa betydelig Deel af Fædrenelandet nödvendigviis enten maa forskjönne eller vansire det Hele i Verdens Öine.

Jeg vover derfor tröstigen at anbefale mine Landsmænd et Selskab, som forenede sig paa Island forrige Aar, i den Hensigt at arbeide paa Sprogets og Literaturens Vedligeholdelse, samt nyttige Kundskabers Udbredelse og Forbedringers Indförelse, ved at udgive paa Islandsk nye Böger i allehaande Videnskabsgrene. Dette Selskab anmodede

mig om at skaffe Bidrag fra Danmark; i Vinter have ogsaa de herværende Islændere efter min Indbydelse forenet sig til at udgjöre en egen Afdeling af samme Selskab; men skjöndt et stort Antal havde tegnet sig paa Island, og næsten alle indfödte Islændere her i Byen, er dog Belöbet af Selskabets aarlige Indtægter ikke större, end at det, for at udrette noget Betydeligt, kunde trænge til den danske Ædelmodighed og Kjærlighed til Fædreneland og Videnskab. Selskabets Natur medförer, at dets Embedsmænd maae være indfödte og dets Forhandlinger foregaae paa Islandsk; men det forpligter sig, aarlig at aflægge Beretning om sine Foretagender paa Dansk. De som ville understötte det, anmodes at tegne deres Navn, Stand, Bopæl og Bidrag enten hos Professor Nyerup, boende paa Regentsen, eller hos Fuldmæglig Thorsteinson i Squaldergaden Nr. 195; ethvert Bidrag, stort eller lidet, aarligt eller een Gang for alle, modtages med Taknemmelighed, men saavel de indfödte Islænderes som Andres betragtes som frivillig Gave, der ikke erstattes ved Böger eller deslige, efterdi Selskabet ikke kan gjöre Regning paa Afsætning uden til lave Priser og meget seent, altsaa maa opoffre meget Betydeligt for enhver Bogs Udgivelse.

Kjöbenhavn, den 27de Marts 1816.

R. Rask.

---

## 6. Fyrsti fundur í deild hins íslenzka Bókmentafèlags í Kaupmannahöfn 13. April 1816[1].

Ár 1816 þann 13. Aprilis var fyrsta regluleg samkoma hins íslenzka fèlags í Kaupmannahöfn haldin á Turni samastaðar. Þetta fèlag var í öndverðu stiptað eptir boðsbrèfum Undirbibliothekarii Rasks, útgefnum á Íslenzku og Dönsku þann [1. Januar og 27. Marts 1816][2], uppá hvert hið fyrsta flestallir Íslendíngar hèr í staðnum, er iðka eður iðkað hafa bókmentir, einnig aðrir merkismenn, höfðu teiknað, lofað að styrkja þetta til bókmenta útbreiðslu og viðurhalds á Íslandi stiptaða fèlag, og þannig gjört sig að þess reglulegum limum. Hið danska boðsbrèf er ætlað til að sýnast mikilsmetnum dönskum embættismönnum, og öðrum megandi vísinda-elskurum, er vilja styrkja fèlagsins augnamið með peníngatillögum.

Hið þannig stiptaða fèlag, sem stofnað er eptir dæmi eins annars, er í fyrra var höfðað á Íslandi, og hefir sinn eiginlega aðseturstað í Reykjavík, hafði

---

[1]) Prentað eptir fundabók deildarinnar í Kaupmannahöfn, og er það hinn fyrsti fundur sem bókaður er, með hendi hins þáveranda skrifara deildarinnar, prófessors Finns Magnússonar.

[2]) [ ] eyða í fundabókinni.

eiginlega sína fyrstu samkomu til að velja embættismenn og tala sig saman um þann haganlegasta máta til samníngs og lögleiðslu nauðsynlegra samþykkta, þann 30. Martii, á sama stað og nú, hvar 33 meðlimir voru nálægir. Þar öllum kom þá saman um, að nauðsynlegt væri að kjósa forseta, fjárhirði og skrifara, til að stjórna fèlagsins efnum, að svo miklu leyti þeim eptir lögunum kynni að tilkoma, var þessi kosning fyritekin. Til fèlagsins formanns var þá kosinn, með lángflestum atkvæðum, þess eiginlegi höfundur, Undirbibliothekarius Rasmus Kristján Rask, og í fyrstu með jafnmörgum atkvæðum til fjárhirðis Regimentsqvartermeistari Grímur Jónsson og Grosserari Kjartan Isfjord. Vegna jafnrar tölu atkvæðanna var valið á ný fyrirtekið, og varð þá velnefndur Regimentsqvartermeistari, hèr sjálfur nálægur, fèlagsins fjárhirðir eptir atkvæðafjölda. Loks var fyrirtekin kosníng skrifarans; varð hún í fyrstu jöfn um Rentukammer-fullmektugan Bjarna Þorsteinsson og Prófessor Finn Magnússon; hún var því endurnýjuð á sama hátt og fyr; hljóðuðu þá fleiri atkvæði um þann síðarnefnda, og varð hann þannig fèlagsins skrifari. Fèlagsins forseti lofaði þvínæst að semja framvarp til samþykkta þess, og láta það berast um kríng meðal limanna, að þeir gætu sett þær athugasemdir þarvið, er þeim virtust nauðsynlegar, út á spázíunni.

Þeir nú samankomnu meðlimir yfirveguðu þvínæst það fyrr umgetna af forsetanum samda og meðal hinna um borna lagafrumvarp, og þær athugasemdir, er nokkrir af limunum höfðu gjört þar við. Þeir ályktuðu sameiginlega, að það í þessu framvarpi, er viðkemur sambandi þeirra tveggja fèlaga hèr í Höfn og á Íslandi, verði ei lögtekið fyrst um sinn, fyrri en það sè auglýst fèlaginu á Íslandi og þess meiníng sè heyrð, að því búnu áskilur fèlagið í Höfn sèr rètt til að fella sína ályktun hèrum á nýrri almennri samkomu. Þær aðrar ákvarðanir, er í frumvarpinu standa, eru hèr lögleiddar með atkvæðafjölda, svoleiðis sem nú hèr á staðnum er ritað á skjalið sjálft.

Þvínæst var fyrirtekin kosníng Vara-forseta, -fèhirðis og -skrifara; til Auka- eður Vara-forseta var með atkvæðafjölda kosinn Rentukammer-fullmektugur Bjarni Þorsteinsson, til -fèhirðis Grosserari Kjartan Isfjord og til -skrifara Cancellisti Vigfús Þórarinsson.

Þessu næst var talað um, hvert skrif væri nauðsynlegast að útgefa fyrst um sinn á fèlagsins kostnað; kom þá öllum saman um, að bezt væri að láta taka saman og prenta Ágrip af landaskipun, ef kostur væri til að fá það samið, og að ráðstöfun hèrum yfirlátist forsetanum. Í þetta sinn voru 11 fèlagslimir nálægir.

R. Rask.

F. Magnússon.

7. Fyrsti fundur í deild hins íslenzka Bókmentafèlags í Reykjavík 1. August 1816[1].

Ár 1816, fimtudaginn þann 1. August, var í Reykjavík almennur fundur áhrærandi grundvöllun þess íslenzka bókmentafèlags á Íslandi, eptir skriflegri innköllun dómkirkjuprests síra Árna Helgasonar, dagsettri 16. f. m., útgefinni að tilhlutun fèlagsins upphafsmanns og núverandi forseta fèlagsins í Kaupmannahöfn, bókahirðis R. Rasks, hvert skjal er viðlagt Protokollnum. Allir þeir innkölluðu, sem eiga heima hèr í Reykjavík, hafa teiknað sín nöfn á fyrirkallið og mættu, að tveim fráskildum. Annað fyrirkall er auglýst fèlagsins limum á Álptanesi, en enginn þaðan mætir. Það af fèlaginu í Kaupmannahöfn nú að miklu leyti samþykkta lagafrumvarp var fram lagt, ásamt því fylgjandi þreföldum atkvæðum fèlagslima í Kaupmannahöfn um nokkur þess atriði. Bæði þessi skjöl hafa gengið um kríng meðal allra fèlagslimanna hèr í Reykjavík og á Álptanesi, án þess að nokkur þeirra hafi gjört athugasemd þarvið, eptir ósk þeirri sem þarum var framsett í fyrirkallinu. Þeir samankomnu meðlimir fyrirtóku þvínæst kosníng fèlagsins embættismanna og fyrirmanna, samkvæmt lagafrumvarpinu, og voru þannig valdir með flestum atkvæðum: til reglulegs forseta dómkirkjuprestur Árni Helgason; til skrifara: sýslumaður Halldór Thorgrimsen, og til fjárhirðis: landfógeti Sigurður Thorgrimsen. Að því loknu voru á sama hátt kosnir til annara fyrirmanna eða fèlagsins embættismanna í hinna forföllum, til aukaforseta: Justitsráð Ísleifur Einarsson; til aukaskrifara: Assessor Bjarni Thorarensen, og til aukafjárhirðis: Lektor Jón Jónsson. Fèlagsins þannig völdu nú hèr til staðar verandi reglulegu embættismenn og aðrir nærverandi fèlagsins limir komu sèr saman um, að önnur almenn samkoma haldist sem fyrst að forsetans ráðstöfun, til að velja fèlagsins embættismenn annarstaðar í landinu, og til endilegrar lögtekníngar þess samþykkta, svo að fèlaginu í Kaupmannahöfn verði gefin nægileg ávísun um þess grundvöllun og viðtektir. Kríngumstæðurnar leyfa ekki að tilkalla fleiri fèlagslimi úr fjarlægum hèruðum, og það virðist ei heldur nauðsynlegt, þar enginn hefir gefið neina því viðvíkjandi ósk eður atkvæði til kynna.

Ár, dag og stað sem fyrr greinir.

A. Helgason.

H. Thorgrimsen.

---

[1]) Prentað eptir uppskript, sem forseti deildarinnar á Íslandi, Pètur biskup Pètursson hefir staðfest, eptir fundabók deildarinnar á Íslandi.

8. Brèf frá síra Árna Helgasyni, forseta í deildinni á Íslandi, til Rasks, um fyrstu fundi og athafnir Bókmentafèlagsins á Íslandi. Reykjavík 15. August 1816[1].

Reykjavík þann 15. Aug. 1816.

Hèr innlagt brèf var eg búinn að skrifa þèr, elskulegi vinur! fyrir nokkrum dögum, síðan hefi eg verið að stússa við ýmisleg embættisverk, og einkum við fèlag okkar, og samt verður ei stórt ágengt með þess efni. Vor fyrsti fèlagsfundur var haldinn fyrsta August, eins og (eg) skrifaði þèr, á honum voru einasta valdir embættismenn; í dag var þess annar fundur, og á honum eru lög þín viðtekin, hartnær án umbreytíngar, nema hvað Scheving ætlar að gjöra nokkrar athugasemdir við stílinn; af því sèrðu þá undireins, að það, sem ykkur ytra berst á milli, verður eptir því sem þú óskar, með þeim mismun, að svo lengi sem þú ert uppi áttú að skera úr þar sem jafn verður atkvæðafjöldi, eptir sem mestu menn vorir kjósa; og það er sameiginleg ósk nú um sinn, að prentað verði allt ytra, þó við hèr ráðum hvað prentast skuli annaðhvort ár; eru til þess margar orsakir, að flestir vilja þetta: 1mo er sem stendur ei hægt að vanda allt sem bezt, þar sem ei nema eitt prentverk, ei hið fullkomnasta, er til. — 2do eru flutníngar á bókum torveldari hèðan yfir land, heldur en frá Kaupmannahöfn til ymsra landsins hafna. — 3io eru líkindi til, að meir kosti að láta hèr prenta en ytra; og — 4to svo er ekki vegur til, ef fèlagið fengi nokkurn höfuðstól, að setja hann hèr á rentu. Með tímanum kunna þessir örðugleikar að mínka, þó eg sjái litla von til þess.

Á fundi vorum í dag voru og kosnir umboðsmenn í hverri sýslu suður og vesturamtsins, sem eru þessir:

í Skaptafells sýslu, sýslumaður Jón Guðmundsson á Vík;
í Rángárvalla, prófastur síra Steingrímur á Odda;
í Árness, Jón Jónsson á Skálholti, authorisèraður sýslumaður;
í Gullbríngu og Kjósar sýslu fyrir utan Reykjavík, stiptprófastur Markús Magnússon á Görðum;
í Snæfellsness, prófastur síra Guðmundur Jónsson á Staðastað;
í Mýrasýslu, sýslumaður Pètur Ottesen;
í Stranda sýslu, prófastur síra Hjalti Jónsson á Stað í Steingrímsfirði;
í Ísafjarðar sýslu, sýslumaður Ebenezer Þorsteinsson,
og Barðastrandar, sýslumaður Guðbrandur Jónsson á Selárdal.

Dala og Borgarfjarðar sýslur mættu afgángi, því í annari eru tveir fèlagslimir, en í hinni fjórir, og tillag úr báðum hèrumbil 2 rd.; þó er stúngið uppá, ef til kemur, síra Bjarna Arngrímssyni í Borgarfjarðar og síra Gunnlaugi Gunnlaugssyni á Kvenna-

[1]) Prentað eptir frumritinu, sem er í skjölum deildarinnar í Kaupmannahöfn.

brekku í Dala sýslu. Í norður-amtinu hefi eg beðið amtmann Thorarensen að kjósa umboðsmenn, og það mun hann gjöra, og tengdasonur hans, sýslumaður Melsteð, hefir umboð í allri Múlasýslu. Áður en þetta gjörðist í dag var eg búinn að skrifa til hèrumbil þessum sömu, og hafði beðið þá innkalla, en ekki er enn komið nema úr Múla-, Skaptafells-, Rángárvalla-, Ísafjarðar-, Gullbríngu- og Kjósar sýslum, að fáum undanteknum, nokkuð úr Árness-, Mýra- og Borgarfjarðar sýslum. Amtmaður Thorarensen mun gjöra skil fyrir fjórum Norðurlands-sýslum; en mig furðar, að ekkert kemur úr Barðastrandar sýslu, hvar þó var lofað töluverðu. Yfir þá sem borgað hafa mun landfógeti senda þèr registur, en ekki veit eg hvort (eg), þángað til Finsen fer, get fengið uppskrifaðan lista yfir alla vora svo kölluðu fèlagslimi, og satt að segja, svo veit eg ei hvort til nokkurs er að telja aðra en þá, sem standa í skilum, og þú munt sanna að þeir verða miklu færri en hinir, er hafa nafnið að sönnu etc. — Eg vænti þèr virðist nauðsynlegt að prenta lista yfir fèlagslimi hèr. Mèr sýnist það óþarft, og ekki heldur hægt að koma því við; menn falla frá ýmislega, kannske bætast við, svo yrði næstum því árlega að prenta þenna lista, og það kostar nokkuð. Mun ei duga að geta embættismanna og umboðsmanna hèr og þar, og summu þess innkomna styrks? — Hitt lengir og tælir, því komi ei með skilum inn hið lofaða, svo þykir máske verða ódrjúgt í höndum þeirra, sem með fara. Menn sækja dræmt fundi vora, þó voru flestir í dag af Álptanesi, en þess færri úr höfuðstaðnum; annríkið er svo mikið, getur og verið það sè, þegar allt verður að gjörast í einu, sem hefði mátt taka fyrir smásaman, og hræddur er eg um að búinn verði (eg) að fá nóg við þessi störf um það árið er úti, ef eg tek ei í tíma þá reglu: „láttu allt flakka, sem vömbin veltist".

Með Finsen mun eg senda þèr lög þín, með Schevings athugasemdum yfir stílinn á þeim, er mèr virðist samt góður, en þó svo, að ei væri af vegi að færa sèr þær sumstaðar í nyt. Landfógeti skrifar þèr þá, og sendir með Overkrigscommissair Grími þá innkomnu peninga; máske eitthvað verði þá komið í viðbót. Og nú hætti eg, fel þig forsjóninni í þèr eða fyrir utan þig, en bróður minn Einar henni og þèr, og umfaðma þig í anda, vinn sinn vinur

A. Helgason.

---

9. Boðsbrèf deildar hins íslenzka Bókmentafèlags í Kaupmannahöfn til presta á Íslandi, um að semja sóknalýsíngar, til undirbúníngs á almennri lýsíng landsins. Með þar til heyrandi spurníngum. Kaupmannahöfn 30. April 1839.

Það er harðla áríðandi hverri þjóð, að þekkja til hlítar land það sem hún býr í, og ástand sjálfrar sín í öllu tilliti; en það getur hún því að eins, að rètt og greini-

leg lýsíng á landinu og þjóðinni hafi verið samin og sett á bækur, er síðan komi í almenníngs hendur. Vèr Íslendíngar höfum ekki híngað til eignazt neitt þesskonar rit um land vort og sjálfa oss, því það sem ritað hefir verið í þessari grein, er víða á dreif í bókum og brèfasöfnum, og mundi ekki heldur hrökkva mikið til nákvæmrar lýsíngar á landinu og þjóðinni, þótt það væri allt komið á einn stað.

Deild hins íslenzka Bókmentafèlags í Kaupmannahöfn hefir ásett sèr að bæta úr þessu eptir mætti, og hefir í því skyni falið oss á hendur fyrst um sinn, að safna öllum skýrslum, er vèr getum fengið, fornum og nýjum, til nýrrar og nákvæmrar lýsíngar á Íslandi, er síðan verði samin og prentuð á kostnað fèlagsins. Vèr höfum allan vilja til að leysa þetta starf sem bezt af hendi; en oss getur þá að eins auðnazt það, að landar vorir, er vèr leitum upplýsínga hjá, bregðist sem bezt undir það, hver með öðrum. Vèr leyfum oss nú að senda yður fyrirspurnabrèf, samhljóða þeim, er vèr jafnframt sendum öllum prófôstum og prestum á landinu, og erum þess fullöruggir, að þèr auðsýnið fèlagi voru og oss þá góðvild, að svara spurníngum vorum sem bezt og greinilegast, að svo miklu leyti sem þær geta átt við yðar prestsumdæmi, og sjáið ekki í fyrirhöfnina, sem raunar er töluverð, en lítið heldur á hitt, að fèlagi voru er það ómissandi, eigi fyrrnefnd lýsíng á Íslandi að verða svo skýr og áreiðanleg, sem vèr gjarnan vildum.

Endist yður ekki hið næsta sumar til að svara spurníngum vorum eins vel og þèr munduð kjósa, biðjum vèr yður að senda oss seinna það sem á brestur, og leggjum vèr á yðar vald, hvort þèr vilið heldur svara beint áfram hverri spurníngu fyrir sig, eður semja sjálfir lýsíngu á prestsumdæmi yðar, og hafa þá svo mikla hliðsjón af spurníngum vorum, sem við verður komið, en senda oss síðan þessa lýsíngu eins fljótt og orðið getur. Og svo þèr getið hèrumbil sèð, hvernig skipulag bókarinnar muni verða, og raðað svo niður eptir því efninu í sóknarlýsíngu yðar, leyfum vèr oss að nefna hin helztu atriði hennar, í þeirri röð, sem oss finnst þau eigi að verða, og deild fèlags vors í Kaupmannahöfn hefir látið sèr vel líka.

I.

1. Afstaða og stærð landsins.
2. Landslag *(Orographie)*.
   Fjallaskipan (fjallgarðar, einstök fjöll, hálsar og heiðar, o. s. frv.).
   Hèruð og dalir, strandir, nes og eyjar.
   Eldfjöll, eldgos, jarðbrunar, hraun.
   Um uppkomu og myndun landsins.
3. Haf og vötn.
   Hafið.
   Flóar, firðir og víkur.
   Um uppsprettur (hvernig vatn sprettur af jörðu).

Rennandi vötn.
Stöðuvötn.
Hverir og laugar.
Ölkeldur.
4. Veðráttufar og loptslag.
Vindar.
Regn (skriður, jarðföll).
Snjór (snjóflóð).
Jöklar.
Hafís.
Hiti og kuldi.
Segulmagn.
Rafurmagn (skruggur, hrævar eldur).
Loptsjónir (norðurljós, stjörnuhrap, vígahnettir, o. s. frv.).
5. Frá auðæfum náttúrunnar:
Jarðverur (steinar, málmar, o. s. frv.).
Jurtir.
Dýr.
6. Frá kynferði og eðlisfari þjóðarinnar.

II.

1. Landsbygð, allt í frá landnámatíð.
2. Læknisdæmi.
3. Veraldleg skipan, allt í frá landnámatíð.
4. Andleg skipan, allt í frá landnámatíð.

III.

A. Uppruni og forlög þjóðarinnar (almennt yfirlit).

B. Þjóðarlýsing.

I. Líkamleg efni:
1. Bjargræðisvegir.
2. Kunnátta og handiðnir *(Industrie)*.
3. Kaupverzlan.
4. Íþróttir.

II. Andleg efni:
1. Mál.
2. Bókmentir.
3. Listir.
4. Siðferði.
5. Trúarbrögð.

C. Landstjórnarsagan.
1. Stjórnarlögun *(Forfatning)*.
2. Stjórnarathæfi *(Forvaltning)*:
*a.* veraldlegt. *b.* andlegt.

Af þessu yfirliti sjáið þèr, að fèlag vort ætlast til að bók þessi verði býsna yfirgripsmikil. Það er nú að miklu leyti komið undir góðvild yðar og annara, sem vèr höfum orðið að mæða með fyrirspurnum vorum, hvort hún getur á sínum tíma orðið svo af hendi leyst, að hún verði fèlagi voru og fósturjörðu til gagns og sóma, og öllum innlendum sem útlendum Íslands vinum til nytsamlegs fróðleiks og skemtunar.

Í umboði hins íslenzka Bókmentafèlags deildar,
Kaupmannahöfn þann 30ta dag April-mánaðar 1839.

Finnur Magnússon. Jónas Hallgrímsson. Konráð Gíslason.
Brynjólfur Pètursson. Jón Sigurðsson.

Til
Herra (N. N.)

## SPURNÍNGAR TIL SÓKNALÝSÍNGA PRESTA OG PRÓFASTA Á ÍSLANDI.

1. Hver eru takmörk sóknarinnar (sóknanna) á alla vegu?
2. Hver eru þar fjöll, hálsar, heiðar eða fell[1]? hvernig eru þau áföst öðrum fjöllum eður sín á milli? í hverja átt liggja þau hvert um sig, og hvar enda þau? — Ef þau koma úr öræfum — hvað heita þá öræfin á bak við þau, svo lángt sem menn þekkja, og hvernig er þeim háttað? — hvernig er hvað af þessu lagað eður útlítandi (hátt eður lágt, bratt eður óbratt, klettótt, bert eður grasi vaxið)?
3. Hverir eru þar jöklar við bygð eður í öræfum, og hvernig liggja þeir? eru þeir hájöklar, falljöklar eður skriðjöklar? eru þeir gengir? aukast þeir svo menn viti, og í hverja átt?
4. Hverskonar klettar eru þar í fjöllum (blágrýti, móberg, stuðlagrjót o. s. frv.)? og sè þar meir en einskonar grjót, hvernig liggja þá lögin?
5. Eru þar nokkurstaðar, svo menn viti, málmar eður merkilegar steinategundir í klettum eður jarðlögum? og hverjar, ef eru?
6. Eru þar nokkrar leifar í jörðu, svo menn viti, af fornaldar jurtum eður dýrum (t. a. m. surtarbrandur, steinkol, skeljar o. s. frv.) og hvar, ef eru? og hvernig er jarðlagið kríngum þær?
7. Eru þar brennusteinsnámur, og hvar, og hvernig er þeim háttað, og hvernig eru þær notaðar?
8. Hverir eru þar dalir (aðaldalir og afdalir)? hvernig liggja þeir? og hvað heldur að þeim?
9. Hver eru þar nes (höfðar, múlar, o. s. frv.)? og hvernig liggja þau (í hverri röð, í hverja átt o. s. frv.)?
10. Hverjar eru þar eyjar, bygðar og óbygðar? hversu stórar eru þær hver um sig, og hvernig lagaðar? í hverja átt og hvernig liggja þær hver frá annari og frá meginlandi?
11. Hver eru þar eldhraun? hvaðan eru þau komin? hvar liggja þau (takmörk þeirra á alla vegu)? hversu stór eru þau eptir ágizkan? eru nokkrar gjár í þeim merkilegar, eða hellrar? og hvernig er þeim varið? hvað vita menn um uppkomu og aukníng hrauna? að hve miklu leyti eru þau ber eða gróin? grær þar gras eða skógur?
12. Hvar eru þar aðrir hellrar? og hvað heita þeir? hve stórir eru þeir? og að hverju leyti eru þeir merkilegir?
13. Hverir eru þar skógar, hversu stórir og hversu góðir? fer þeim fram eða aptur,

[1]) þar sem fjöll, vatnsföll, bæir, eður annað hafa (eður hafa haft) fleiri nöfn en eitt, biðjum vèr, að þau sèu skilmerkilega til greind.

og hvað veldur því? Vex þar nokkur annar viður (til að m. reyniviður) og hvar, og hve mikill?

14. Hvernig er þar landslag, yfirhöfuð að segja (votlent eða þurlent, slètt, móótt, melótt, eyðisandar o. s. frv.)?
15. Hver hefir þar orðið breytíng á landslagi síðan landnámatíð, svo sögur fari af?
16. Hverir eru þar firðir og víkur, og hver eru þar sund? hvernig liggur það allt og í hverri röð? (lengd og breidd eptir ágizkun).
17. Hvar eru þar hafnir og beztar lendíngar? hverir eru kostir og ókostir þeirra?
18. Hvar eru þar rastir, boðar, grynningar, rif eða sker? er þar útgrynni eður aðdjúpt? aukast þar grynníngar svo menn viti?
19. Hver eru þar rennandi vötn, stór og smá? hvar hafa þau upptök sín? hvar renna þau, og í hverja átt? eru þau vatnsmikil, straung, lygn, og hvernig eru þau yfirferðar? hverir eru í þeim fossar, og hvernig lagaðir (breiðir, háir, beinir)? Hvernig er farvegi háttað (gljúfur, bakkar, eyrar)? að hverju leyti hafa þau breytt farvegi sínum svo menn viti? hvar eru á þeim helztu góð eða hættuleg vöð eða brýr, kláfar eða ferjur, og hverjar lögferjur? hversu djúpar eru þar stórár við sæ, og hafa menn sögur af að skipum hafi verið lagt upp í þær, og hvert?
20. Hver eru þar stöðuvötn, og hve stór, og hvar liggja þau? Eru í þeim eyjar, og hverjar eru þær, og hversu er þeim háttað?
21. Hverjar eru þar laugar, hverir, ölkeldur, og hvar, og hvernig er þeim háttað?
22. Er þar veðrasamt? og af hverri átt, og um hvern tíma árs, mest eður minnst?
23. Er þar rigníngasamt? eður þurkasamt? og af hverri átt mest eður minnst? og hvernig hagar því eptir árstímum?
24. Er þar snjóvasamt á vetrum? og af hverri átt mest eður minnst?
25. Hver átt er þar köldust, og hver heitust?
26. Hvort er þar nokkur regla í veðráttufari, svo menn hafi tekið eptir — til að mynda: að sama eður líkt veður gángi þar ár eptir ár um sama leyti?
27. Verður þar vart við reiðarþrumur, og hversu opt, og um hvern tíma árs er það gjarnast? í hvaða veðri? Hefir þar orðið grand að lopteldi svo menn viti?
28. Sjást þar nokkrar sèrlegar loptsjónir, eður með hverju móti?
29. Kemur þar hafís? og eptir hverju hafa menn tekið um aðferð hans og eðli og afleiðíngar?
30. Hverir eru þar bæir (og hjáleigur) eptir bæjaröð? í hverja átt og hversu lángt liggja þeir hver frá öðrum? hvar stendur hver þeirra (til a. m. undir hverju fjalli, við hverja á, fjörð eða vík, o. s. frv.)? hver er dýrleiki hverrar jarðar? hvernig eru landskostir hverrar jarðar (útigángur, heyskapur, o. s. frv.)? hverir eru helztir ókostir jarða? liggja þær undir áföllum, og hverjum (skriður, snjóflóð, landbrot, sandfok, o. s. frv.)? að hve miklu leyti vita menn til þær hafi gengið af sèr? eður batnað?

31. Hverir bæir eiga þar selstöður, og hvar? hverjar þeirra eru notaðar, og hversu lengi? hverjar eru niður lagðar, og hvenær, og hversvegna svo menn viti?

32. Hvar eru þar afrèttarlönd (eru það almenníngar eður liggja þau undir einstakar jarðir, og hverjar þá)? hverjar sveitir hafa þar upprekstur? hverjar rèttir eru þar, og hvar, og hvenær haldnar, og hvaðan til sóktar?

33. Hver er þar veiði til lands og sjáfar (selveiði, allskonar fiskiveiði, fuglveiði, hreindýraveiði, refadráp) og hver er veiðiaðferð við hvert um sig? — Hvar eru veiðistöður? Hver eru þar fiskimið, hákallamið, nótlagnir, netalagnir, lóðamið? hver eru þar fuglabjörg, og hvernig er þeim háttað?

34. Um hvern árstíma eru veiðar stundaðar, og með hverjum hætti? fer þeim aptur eða fram?

35. Hvað vita menn þar ljósast um allar fiskigaungur?

36. Hvenær koma og fara farfuglar þar vor og haust?

37. Hver eru þar önnur hlynnindi (eggvarp[1], dúntekja, fjaðratekja, lundatekja, rekar, grasatekja, sölvatekja, meltak, mótak, hvannatekja, berjatekja, litunargrös o. s. frv.) og hvernig eru þau notuð? fara þau vaxandi eður mínkandi?

38. Eru þar eyðijarðir, og hverjar, og hvar, og hvernig og hvenær hafa þær lagzt í eyði?

39. Hver eru þar nýbýli, og hvenær upp tekin?

40. Hvar liggja alfaravegir um sóknina, og úr henni í aðrar sóknir á alla vegu; (fjallvega lengd eptir ágizkun)? — Vegabætur: ruðníngar, brýr, vörður, sæluhús o. s. frv.? — Torfærur: hvernig þeim sè varið, og hvort úr þeim verði bætt; (áfángastaðir á fjallvegum)? hverir bæir standa næstir fjallvegum beggja vegna?

41. Hvar er kirkjustaður (annexía eður prestsetur)?

42. Hvar hafa verið kirkjur eða bænhús, sem nú eru aftekin? og hvenær hafa þau lagzt niður? og hverir bæir hafa átt þángað (kirkju-) sókn?

43. Hverjar (kirkju-) jarðir liggja til kirkjunnar? og hver ítök?

44. Hver er lènsjörð prests (á píngabrauðum)?

45. Hversu opt skal messa á hverri kirkju?

46. Hverjar eru þar kristfjárjarðar, fátækrajarðir eður aðrar jarðir til almennra þarfa? hver hefir umsjón þeirra? hve mikið er afgjald þeirra, og til hvers er því varið? hvernig eru þær til komnar, svo menn viti?

47. Hverir bæir eru þar reisuglegastir og bezt húsaðir? Nota menn þar rekavið eður innlenda skógarapta til húsabyggínga?

48. Hver eru þar kauptún? hversu fjölmenn eru þau? eru þar mörg kaupmannasetur? hverir búa þar fleiri en kaupmenn? hver eru þar (eður annarstaðar í sókninni

[1]) Eru þar hlaðnir varphólmar, og af hverjum?

hróf handa þiljuskipum? hvar liggja þau, og hvernig er þeim varið? hve mörg eru þar (í kaupstaðnum) steinhús, timburhús, torfhús? hver eru þar fiskitökuhús eður önnur hús utan kaupstaðar, er liggja undir kaupstaðinn?

49. Hverir eru þar bjargræðisvegir? hverir af þeim eru arðsamastir, og hverir mest ræktir?

50. Eru þar hafðar færikvíar? eru kýr hafðar inni á sumrum, eða hestar traðaðir? Eru þar höfð beitarhús á vetrum? tíðkast þar borgir eður önnur fjárhús?

51. Hvernig er þar stunduð almenn jarðarækt, túngarðahleðsla, túnaslèttun, greftir til vatnsafleiðínga, skriðugarða hleðsla o. s. frv.?

52. Hvernig er þar stunduð kálgarða rækt, kartöplur eður jarðepli?

53. Hvað er þar haft til eldsneytis?

54. Er þar nautfè eður sauðfè svo menn viti af útlendu kyni, og hversu arðsamt að tiltölu við hið innlenda?

55. Hvernig hagar þar allri vinnu, inni við og úti við? Hver er þar innivinna á vetrum og hver útivinna? Í hverri viku sumars er sláttur vanur að byrja og enda?

56. Hverjar íþróttir eru þar tíðkanlegar (sund, skot, skíðaferð, skautaferð, glímur o. s. frv.)? hverjar mest tíðkaðar eður af hversu mörgum o. s. frv.?

57. Eru þar leikin hljóðfæri, og hver og af hve mörgum? Þekkja menn þar nótna saung?

58. Hvað hafa menn helzt til skemtunar?

59. Hve margir eru þar skrifandi?

60. Aldur og kyn þeirra sem ekki eru skrifandi?

61. Hvernig er siðferði þar varið? í hverju er því helzt ábótavant? fer því aptur eða fram?

62. Fer trúrækni þar aptur eða fram? eða þekkíng trúarbragðanna?

63. Eru þar læknar settir af konúngi, eður aðrir, og þá hverir, er leyfi hafa til lækninga?

64. Eru þar yfirheyrðar yfirsetukonur, eða aðrar, er leyfi hafa til þeirrar iðnar?

65. Hverir sjúkdómar eru þar almennastir? eru þar nokkrir sèrlegir sjúkdómar (t. a. m. ginklofi, holdsveiki) og hverir?

66. Hefir almúgi þar nokkur innlend meðöl við sjúkdómum, og hver (t. a. m. lækninga jurtir, jarðböð, sjáfarböð, laugar o. s. frv.)?

67. Er kvikfènaður þar undirorpinn nokkrum sèrlegum sjúkdómum? hafa menn nokkur ráð við þeim, og hver?

68. Eru þar nokkrar fornleifar, t. a. m. rúnar í hellrum eður á björgum eður hellum, einstakir steinar, eður forn leturskurður eður myndir á trè eður málmsmíði, ellegar önnur merkileg fornrit á bókfelli eður vefnaði? ellegar fornar húsatóptir,

naust eða hróf, dómhríngar, garðlög, steinar (blótsteinar, hörgar, grettistök) eður haugar?

69. Eru nokkrar fornsögur manna á milli, og hverjar? eður fáheyrð fornkvæði og hver?

70. Hverjar fornleifar hafa fundizt þar (eða verið geymdar) svo menn viti, sem nú eru þar ekki framar, og hvað er orðið af þeim?

---

10. Boðsbrèf deildar hins íslenzka Bókmentafèlags í Kaupmannahöfn til sýslumanna og annara fleiri á Íslandi, um að semja sýslulýsíngar til undirbúníngs á almennri lýsíng landsins. Með þartil heyrandi spurníngum. Kaupmannahöfn 30. April 1839.

Deild hins íslenzka Bókmentafèlags í Kaupmannahöfn hefir ásett sèr að láta prenta nýja og nákvæma lýsíng á Íslandi, og hefir falið oss á hendur fyrst um sinn að safna til hennar, og þareð fèlagið ekki hefir efni á að senda menn gagngjört út til Íslands, til að ferðast um allt land, hefir það falið oss á hendur að skrifast á við þá menn úti á Íslandi, sem vèr vonuðum fróðleiks af um öll þau efni, sem bókin á að skýra frá, og engin nákvæm skilríki eru fáanleg um hèr í borginni.

Vèr höfum nú sent öllum þeim brèf, sem vèr treystum fremst til að muni vilja og geta stoðað þetta fyrirtæki, og sèrílagi öllum prestum og próföstum á landinu; leyfum vèr oss að senda yður það brèf og spurníngar til sýnis; en um sumt er þar óspurt, sem vèr getum hvergi fengið nema hjá yður, og leyfum vèr oss því að leita yðar um úrlausn spurnínga þeirra sem hèr fylgja, og viðvíkja sýslu og sveita takmörkum o. s. frv.

Vèr erum sannfærðir um, að þèr eins vel og vèr sjáið, hversu þarfleg og fróðleg að slík bók mætti verða, ef hún væri vel af hendi leyst, og undir eins, að allir kostir hennar sem mest á ríður eru komnir undir því, að allir stoði fèlagið, hver í sinni röð, til þessa vandaverks; vèr vonum því staðfastlega, að þèr verðið vel við bón vorri, og hvetið aðra til hins sama, enda leggið á góð ráð, þar sem þurfa þækti, svo vèr fengjum sem fróðlegasta og nákvæmlegasta skýrslu á öllu, spurðu sem óspurðu, smáu sem stóru? skulum vèr ekki spara neitt ómak til þess, að þær skýrslur

verði notaðar sem bezt, svo bókin gæti orðið fèlagi voru og fósturjörð til gagns og sóma, og vinum þeirra innlendum sem útlendum til fróðleiks og skemtunar.

Í umboði hins íslenzka Bókmentafèlags deildar
Kaupmannahöfn þann 30ta dag April-mánaðar 1839.

Finnur Magnússon. Jónas Hallgrímsson. Konráð Gíslason.
Brynjólfur Pètursson. Jón Sigurðsson.

Til
Herra (N. N.)

---

## SPURNÍNGAR TIL SÝSLULÝSÍNGA SÝSLUMANNA Á ÍSLANDI.

1. Hver eru takmörk (N. N.) sýslu á alla vegu?
2. Hver eru þar bygðarlög, svosem hèruð, sveitir, dalir, hverfi o. s. frv., eptir röð, og hver eru takmörk þeirra?
3. Eru takmörk sýslunnar hin sömu og prófastsdæmisins, eður hverju munar?
4. Hverir eru hreppar í sýslunni, hvar eru þíngstaðir þeirra, og hver eru takmörk sèrhvers hrepps á alla vegu?
5. Eru þar nokkrar jarðir ætlaðar sýslumönnum og læknum til ábúðar, og hverjar, ef eru?
6. Um vegu: Hvar liggja alfaravegir um sýsluna, og úr henni í aðrar sýslur á alla vegu? hversu lángir eru fjallvegirnir kallaðir? hverjar eru þar vegabætur: ruðníngar, brýr, vörður, sæluhús, o. s. frv.? hverjar eru þar torfærur og hvar á alfaravegum, hvernig er þeim varið, og hvort mundi verða úr þeim bætt með tilkostnaði, og hve miklum, eptir ágizkun?
7. Hvernig er búníngur alþýðu (karla og kvenna) í sýslunni? breytist hann, og á hvern hátt? að hverju leyti er hann fremur, og að hverju leyti síður, en í öðrum hèruðum landsins, sem þèr þekkið til.
8. Hversu margir sjóróðrarmenn sækja þar að jafnaði fiskiver í aðrar sýslur á vetrum og vorum, og hvert?
9. Hversu há var tíundin í hverjum hrepp, hversu margir skattbændur, og hve mikið aukaútsvar, allt fyrir 10 árin seinustu, frá 1830?
10. Hversu stórir voru hreppa-sjóðirnir fyrir 10 árum, og hversu stórir eru þeir nú?
11. Hversu margir sveitarómagar voru í hverjum hrepp fyrir 10 árum, og hversu margir eru þeir nú?

---

12. Um veðráttufar og loptslag: Vèr æskjum mikilega yður þóknaðist að semja handa oss almenna lýsíngu á því í yðar sýslu, og hafa þá, eins og verður, hliðsjón af prestaspurníngum um þetta efni (22.—29. spurníngu)?

---

## 11. Skýrsla um sýslu lýsíngar og sókna, sem eru í safni hins íslenzka Bókmentafèlags 1866.

### I. Norður-Múla sýsla.

Sýslulýsíng: sýslumaður Ferdinand Valsöe, 6. Novbr. 1839.
Skeggjastaðar sókn, síra Hóseas Árnason, Decbr. 1841.
Hof í Vopnafirði, síra Guttormur Þorsteinsson prófastur, August 1840.
Hofteigur og Brú, síra Sigfús Finnsson, 30. Decbr. 1840.
Kirkjubær, síra Björn Vigfússon, 15. Decbr. 1839.
Ás í Fellum, síra Benedikt Þórarinsson, 30. Septbr. 1840.
Valþjófstaður (með korti), síra Stephán Árnason, 15. Oktbr. 1840.
Hjaltastaður, síra Jón Guðmundsson, 31. Decbr. 1842.
Eyðar, síra Bergvin Þorbergsson, 16. Decbr. 1841.
Desjarmýri og Njarðvík, síra Snorri Sæmundsson (1839).
Klyppstaður og Húsavík, síra Guðmundur Erlendsson og kapellán hans síra Jón Austfjörð, 18. Januar 1842.
Dvergasteinn og Fjörður, síra Einar Hjörleifsson, 19. Oktbr. 1840.

### II. Suður-Múla sýsla.

Sýslulýsíng (á Dönsku), sýslumaður Johan Christopher Voigt, 30. Decbr. 1842.
Skorrastaður, síra Benedikt Þorsteinsson, 1. Oktbr. 1841.
Hólmar, síra Hallgrímur Jónsson, í Novbr. 1843.
Kolfreyjustaður, síra Ólafur Indriðason, í Septbr. 1841.
Stöð í Stöðvarfirði, síra Magnús Bergsson, 31. Decbr. 1839.
Heydalir, síra Snorri Brynjólfsson, 4. Oktbr. 1840.
Vallanes, síra Guttormur Pálsson prófastur (1840).
Hallormstaður, síra Hjálmar Guðmundsson, Oktbr. 1840.
Þíngmúli, síra Engilbert Þórðarson, 24. Jan. 1843.
Berufjörður, síra Pètur Jónsson, 6. Septbr. 1840.
Hof í Álptafirði, síra Jón Bergsson, 15. Oktbr. 1840.

III. Skaptafells sýsla.

Sýslulýsíng, sýslumaður Magnús Stephensen (1843).
Stafafell, síra Björn Þorvaldsson (1842).
Bjarnanes og Hoffell, síra Þórarinn Erlendsson, 22. Decbr. 1840.
Einholt, síra Jón Bergsson, 24. Decbr. 1839.
Kálfafell í Fellshverfi, síra Þorsteinn Einarsson, 8. Oktbr. 1855.
Sandfell og Hof, síra Páll Magnússon Thorarensen, 6. Juli 1839.
Kálfafell á Síðu, síra Jón Sigurðsson, 12. Juli 1859.
Kirkjubæjar klaustur, síra Páll Pálsson, á hvítasunnu 1842.
Ásar og Búland, síra Pètur Stephensen (1839).
Lángholt (Meðallands þíng), síra Brynjólfur Árnason, 24. Decbr. 1839.
Þykkvabæjar klaustur, síra Sveinn Benediktsson (1840).
Höfðabrekka og Reynir, síra Jón Sigurðsson, í Marts 1840.
Sólheimar og Dyrhólar, síra Stephán Stephensen, 25. Juli 1839.

IV. Vestmannaeyja sýsla.

Sýslulýsíng, settur sýslumaður A. Baumann, 16. Juni 1852.
Kirkjubær og Ofanleiti (með korti), síra Jón Austmann, 17. Juli 1843.

V. Rángárvalla sýsla.

Sýslulýsíng, sýslumaður Magnús Stephensen, í Decbr. 1856.
Eyvindarhólar, Steinar og Skógar, síra Magnús Torfason, 13. Januar 1840.
Holt undir Eyjafjöllum (með korti), síra Markús Jónsson (1845).
Stóridalur, síra Jón Jónsson, 23. Januar 1840.
Fljótshlíðar þíng, síra Stephán Hansson (1844).
Breiðabólstaður í Fljótshlíð, síra Jón Halldórsson, 28. Februar 1844.
Kross og Vomúlastaðir (með korti), síra Guðmundur Lassen (1840).
Stórólfshvol og Sigluvík (með korti), síra Sigurður Gíslason Thorarensen, 29. Novbr. 1839.
Oddi, síra Ásmundur Jónsson prófastur (1840).
Keldur og Gunnarsholt, síra Jóhann Björnsson (1840).
Stóruvellir, Skarð og Klofi, síra Jón Torfason, 14. Januar 1841.
Holta þíng, síra Sigurður Sigurðsson, 3. Juli 1840.
Kálfholt, Ás og Háfur, síra Brynjólfur Guðmundsson (1840).

VI. Árness sýsla.

Sýslulýsíng, sýslumaður Páll Þórðarson Melsteð, í Marts 1843.
Villíngaholt og Hróarsholt, síra Tómas Guðmundsson, 20. Oktbr. 1841.

# Fyrir minni

## hins íslenzka Bókmentafèlags.

Í samsæti Íslendínga

13. dag Aprilmán. 1866.

---

Megir Íslands, mentum sem að unnið,
Minníng oss á þenna kvaddi fund,
Meðan sjónir mæla skeiðið runnið,
Merkisteinn er þessi gleðistund.
Fimtugastan, — fyrstum þeim frá degi,
Fèlag þetta sem að yfir skein, —
Unaðsgeislum efst á tímans vegi
Árshríng gylla náði sólin hrein.

Þá skal einum þakkir klökkar inna,
Þèr, sem veldur nú að finnumst hèr:
Rask! á heiti þitt ei þarf að minna
Þar sem verk þitt hver einn skarta sèr.
Hèr í sal og himni Snælands undir
Hljómi fögrum skal það gjalla' í kvöld,
Fannhvít man það foldin allar stundir,
Fegra nafn ei prýðir hennar skjöld.

Vorrar móður komstu' í faðminn kalda,
Kær varð henni þín en göfga sál;
Ástverk þín með elsku vill hún gjalda,
Efldar mentir, göfgað feðra mál.
Verndarengils augum líttu björtum
Oss, er blessum þína vinargjöf,
Helgust blóm, er vaxa í vorum hjörtum,
Verða' að sveigum handa þinni gröf.

Verk hans blómgast nú að láni lýða,
Laun ei fegri sèr hans andi kýs;
Íslands synir! styrkið stofninn fríða,
Studdur mentum þjóðarhagur rís.
Spara vann ei óði sá er unni,
(Enginn sannleik virði minna' en fèð!)
Fyrir drykk af mærum Mímisbrunni
Mannafaðir auga lèt í veð.

Hvað má kreppa' og kyrkja lífið þjóða,
Kúgun selja skæðust vopn í hönd?
Fyrir lofstír lýðum háðúng bjóða,
Leggja á sál og hendur dularbönd?
Feigðarþoku þýngja jarðarslóðir,
Þartil stirðnar allt í dauðans klóm? —
Fávís heimskan, þrálynd þrældóms móðir,
Þess, er fölna lætur sèrhvert blóm.

Hvað má lýði hvetja, styrkja' og bæta?
Himinrunninn það er sannleiks blær.
Hvað má andann harmi þrúnginn kæta?
Heilög mentun, sjálfum guði kær.
Hennar neisti þó að lifni' í leyni
Loks má verða röðull fagurskær,
Grímutröll er gjörir öll að steini,
Geislum frelsis yfir jörðu slær.

Smátt skal stækka; verk af vilja hreinum
Vexti ná, þó gróður leynist fyrst,
Fræin veiku verða trè með greinum,
Vökvuð árdögg, himinsólu kysst.
Ljóssins himinn hlýjum unaðstárum
Hjúkrar fræi því, er sáum vèr.
Fagur viður frjófgast nær með árum,
Friðarskugga' á grafir vorar ber.

Treystum því, að þróist allt hið góða,
Þessum sem að falið verður reit.
Veitist niðjum efni líkra ljóða,
Lofsverk styrki fróðleiks ástin heit.
Drekkum heilir mentafèlags minni!
Meðan nokkur andans geisli skín
Fósturjörðu frjálsri gagn það vinni,
Fremd og heiður, sem að aldrei dvín!

Meðal þeirra minna, sem drukkin voru, var minni **Rasks** heitins, sem var hinn fyrsti frumkvöðull fèlagsins; mælti Jón Sigurðsson fyrir því, og afhenti um leið samsætismönnum öllum ljósmynd af Rask, er Sigfús Eymundarson hafði tekið eptir þeirri, sem fylgir útgáfu Rasks af Sæmundareddu, og er myndin eignuð þar „*Amicis*" eður vinum Rasks. Eptir máltíð skemtu menn sèr fram eptir kvöldinu með samdrykkju og samræðum, og enduðu þarmeð þenna minningardag fèlagsins.

